# SNÓT,

# NOKKUR KVÆÐI

EPTIR

ÝMISS SKÁLD.

KAUPMANNAHÖFN.

PRENTUÐ HJÁ J. D. KVISTI,
BÓKAPRENTARA OG NÓTNAPRENTARA.

1850.

# SNÓT,

# NOKKUR KVÆÐI

EPTIR

## ÝMISS SKÁLD.

ÚTGEFENDUR:

GÍSLI MAGNÚSSON

OG

JÓN ÞÓRÐARSON THÓRODDSEN.

KAUPMANNAHÖFN.

PRENTUÐ HJÁ J. D. KVISTI,
BÓKAPRENTARA OG NÓTNAPRENTARA.

1850.

## UPPHÖF KVÆÐANNA.

---

# SKÝRÍNG SKAMMSTAFANANNA

## APTAN VIÐ UPPHÖF KVÆÐANNA.

| | | |
|---|---|---|
| Á. B. | það er: | Árni Böðvarsson. |
| B. G. | — | Benidikt Gröndal. |
| B. Th. | — | Bjarni Thórarensen. |
| E. Ó. | — | Eggert Ólafsson. |
| E. Sk. | — | Eigill Skallagrímsson. |
| F. M. | — | Finnur Magnússon. |
| G. B. | — | Grímúlfur Bessason. |
| G. G. B. | — | Gísli Gíslason Brynjólfsson. |
| G. P. | — | Gunnar Pálsson. |
| G. Þ. Th. | — | Grímur Þorgrímsson Thomsen. |
| J. A. | — | Jón Arason. |
| J. H. | — | Jónas Hallgrímsson. |
| J. Þ. | — | Jón Þorláksson. |
| J. Þ. Th. | — | Jón Þórðarson Thóroddsen. |
| H. P. | — | Hallgrímur Pjetursson. |
| H. V. | — | Hans Jensson Víum. |
| K. H. | — | Ketilríður Hólmkelsdóttir. |
| P. V. | — | Páll Jónsson Vídalín. |
| R. O. | — | Rögnvaldur Orkneyíngajall. |
| S. Á. | — | Sigfús Árnason. |
| S. B. | — | Sigurður Breiðfjörð. |
| S. P. | — | Sigurður Pjetursson. |
| St. Ó. | — | Stefán Ólafsson. |
| Svb. E. | — | Sveinbjörn Eigilsson. |
| S. M. H. | — | Sæmundur Magnússon Hólm. |
| Þ. Þ. | — | Þorlákur Þórarinsson. |
| Þ. G. R. | — | Þorleifur Guðmundsson Repp. |
| V. Þ. | — | Víglundur Þorgrímsson. |

## NÖFN SUMRA KVÆÐANNA
### EÐA FYRIRSAGNIR.

# ÍSLAND.

Ísland, farsælda frón
og hagsælda hrímhvíta móðir!
hvar er þín fornaldarfrægð,
frelsið og manndáðin best?
Alt er í heiminum hverfult,
og stund þíns fegursta frama
lýsir, sem leiptur um nótt,
lángt framm á horfinni öld.
Landið var fagurt og frítt
og fannhvítir jöklanna tindar,
himininn heiður og blár,
hafið var skínandi bjart.
Þá komu feðurnir frægu
og frjálsræðishetjurnar góðu
austan um hyldýpishaf
híngað í sælunnar reit;
reistu sjer bygðir og bú
í blómguðu dalanna skauti;

ukust að íþrótt og frægð,
undu svo glaðir við sitt.
Hátt á eldhrauni upp,
þar sem enn þá Öxará rennur
ofan í Almannagjá
alþíngið feðranna stóð.
Þar stóð hann Þorgeir á þíngi,
er við trúnni var tekið af lýði;
þar komu Gissur og Geir,
Gunnar og Hjeðinn og Njáll.
Þá riðu hetjur um hjeröð;
og skrautbúin skip fyrir landi
flutu með fegursta lið,
færandi varnínginn heim.
Það er svo bágt að standa í stað,
og mönnunum munar
annaðhvort aptur á bak,
ellegar nokkuð á leið.
Hvað er þá orðið okkar starf
í sex hundruð sumur?
höfum við geingið til góðs
götuna framm eptir veg?
Landið er fagurt og frítt
og fannhvítir jöklanna tindar,
himininn heiður og blár,
hafið er skínandi bjart.

Enn á eldhrauni upp,
þar sem enn þá Öxará rennur
ofan í Almannagjá,
alþíng er horfið á braut.
Nú er hún Snorrabúð stekkur,
og lýngið á lögbergi helga
blánar af berjum hvurt ár,
börnum og hröfnum að leik.
Ó þjer, únglínga fjöld
og Íslands fullorðnu synir!
sona er feðranna frægð
fallin í gleymsku og dá.

---

## ÍSLANDS MINNI.

Eldgamla Ísafold,
ástkæra fósturmold,
fjallkonan fríð!
mögum þín muntu kær,
meðan lönd girðir sær
og gumar girnast mær,
gljár sól á hlíð.

Hafnar úr gufu hjer
heim allir girnumst vjer,
þig þekka að sjá;
glepur oss glaumurinn,
ginnir oss sollurinn,
hlær að oss heimskínginn
Hafnar slóð á.

Leiðist oss fjalllaust frón,
fær oss opt heilsutjón
þokulopt ljeð;
svipljótt land sýnist mjer
sífelt að vera hjer,
sem neflaus ásýnd er
augnalaus með.

Öðruvís er að sjá
á þjer hvítfaldinn há
heiðhimin við;
eða þær krystallsár,
á hvurjar sólin gljár,
og heiðar himinblár,
hájökla rið.

Eldgamla Ísafold,
ástkæra fósturmold,
fjallkonan fríð!

ágætust auðnan þjer
upp lypti, biðjum vjer,
meðan að uppi er
öll heimsins tíð.

---

## ÍSLAND.

---

Þú, nafnkunna landið! sem lífið oss veittir,
landið, sem aldreigi skemdir þín börn,
hvurt þinnar fjærstöðu híngað til neyttir,
hún sje þjer ódugnaðs frammveigis vörn.

Undarlegt sambland af frosti og funa,
fjöllum og sljettum og hraunum og sjá,
fagurt og ógurlegt ertu, þá brunar
eldur að fótum þín jöklunum frá.

Fjör kenni oss eldurinn, frostið oss herði,
fjöll sýni torsóttum gæðum að ná,
bægi, sem Kerúb með sveipanda sverði,
silfurblár ægir oss kveifarskap frá.

Þó vellyst í skipsförmum völskunum meður
vafri að landi, eg skaða ei tel,
því út fyrir kaupstaði íslenskt í veður
ef hún sjer vogar, þá frýs hún í hel.

Ef læpuskaps ódygðir eykjum með flæða
út yfir haf vilja læðast þjer að,
með geigvænum logbröndum Heklu þær hræða
hratt skaltu, aptur að snáfa af stað.

Enn megnirðu ei börn þín frá voðu að vara,
og vesöld með ódygðum þróast þeim hjá,
aptur í leigið þitt forna að fara,
föðurland! áttu og hníga í sjá.

---

## ÍSLANDS MINNI.

---

Þið þekkið fold með blíðri brá
og bláum tindi fjalla
og svanahljómi, silúngsá
og sælu blómi valla

og bröttum fossi, björtum sjá
og breiðum jökulskalla,
drjúpi hana blessun drottins á
um daga heimsins alla.

## VEISLUKVÆÐI.

Þú stóðst á tindi Heklu hám
og horfðir yfir landið fríða,
þar sem um grænar grundir líða
skínandi ár að ægi blám,
enn Loki bundinn beið í gjótum
bjargstuddum undir jökulrótum;
:|: þótti þjer ekki Ísland þá
yfirbragðsmikið til að sjá? :|:

Þú reiðst um fagran fjalladal
á fáki vökrum götu sljetta,
þar sem við búann brattra kletta
æðandi fossar eiga tal,
þar sem að una hátt í hlíðum
hjarðir á beit með lagði síðum;
:|: þótti þjer ekki Ísland þá
íbúum sínum skemtun ljá? :|:

Þú komst á breiðan brunageim
við bjarta vatnið fiskisæla,
þar sem vjer áður áttum hæla
fólkstjórnarþíngi frægu um heim;
nú er þar þrotin þyrpíng tjalda,
þögult og dapurt hraunið kalda.
:|: Þótti þjer ekki Ísland þá
alþíngi svipt með hrelda brá? :|:

Heilsar þjer nú á Hafnar slóð
heiman af Fróni vina flokkur;
vjer vitum glögt, að annstu okkur,
frakkneskur maður frjálsri þjóð;
því andinn lifir æ hinn sami,
þótt afl og þroska nauðir lami.
:|: Mentanna brunni að bergja á,
besta skal okkur hressíng ljá. :|:

Vísindin efla alla dáð,
orkuna styrkja, viljann hvessa,
vonina glæða, hugann hressa,
farsældum vefja lýð og láð;
tífaldar þakkir því ber færa
þeim, sem að guðdómseldinn skæra
:|: vakið og glætt og verndað fá
viskunnar helga fjalli á. :|:

Þvílíkar færum þakkir vjer
þjer, sem úr fylgsnum náttúrunnar
gersemar áður aldrei kunnar
með óþreytanda afli ber.
Heill sje þjer, Páll! og heiður mestur,
hjá oss sat aldrei kærri gestur;
:|: alvaldur greiði æ þinn stig,
Ísland skal leingi muna þig. :|:

## GUNNARSHÓLMI.

Skein yfir landi sól á sumarveigi
og silfurbláan Eyjafjallatind
gullrauðum loga glæsti seint á deigi.
Við austur gnæfir sú hin mikla mynd
hátt yfir sveit, og höfði björtu svalar
í himinblámans fagurtærri lind.
Beljandi foss við hamrabúann hjalar
á heingiflugi undir jökulrótum,
þar sem að gullið geyma Frosti og Fjalar.
Enn hinu meigin föstum standa fótum,
blásvörtum feldi búin, Tindafjöll,
og grænu belti gyrð á dalamótum.

Með hjálminn skygnda, hvítri líkan mjöll,
horfa þau yfir heiðarvötnin bláu,
sem falla niður fagran Rángárvöll,
þar sem að una bygðar býlin smáu,
dreifð yfir tún og grænar grundir.
Við norður rísa Heklu tindar háu.
Svell er á gnípu, eldur geysar undir;
í ógna djúpi, hörðum vafin dróma,
skelfíng og dauði dvelja lángar stundir.
Enn speigilskygnd í háu lopti ljóma
hrafntinnuþökin yfir svörtum sal.
Þaðan má líta sælan sveitarblóma,
því Markarfljót í fögrum skógardal
dunar á eyrum; breiða þekur bakka
fullgróinn akur, fegurst eingjaval.
Þaðan af breiðir hátt í hlíðar slakka
glitaða blæju, gróna blómum smám.
Klógulir ernir yfir veiði hlakka,
því fiskar vaka þar í öllum ám.
Blikar í lopti birkiþrasta sveimur,
og skógar glymja skreyttir reynitrjám.
Þá er til ferðar fákum snúið tveimur
úr rausnargarði hæstum undir hlíð
þángað, sem heyrist öldufalla eymur,
því hafgáng þann ei hepta veður blíð,
sem voldug reisir Rán á Eyjasandi,
þar sem hún heyir heimsins lánga stríð.

Um trausta streingi liggur fyrir landi
þorðfögur skeið, með þundin segl við rá;
skínandi trjóna gín mót sjávar grandi.
Þar eiga tignir tveir að flytjast á
bræður af fögrum fósturjarðar ströndum
og lánga stund ei litið aptur fá,
fjarlægum ala aldur sinn í löndum,
útlagar verða vinar augum fjær;
svo hafa forlög fært þeim dóm að höndum.
Nú er á burtu borinn vigur skær
frá Hlíðarenda hám, því Gunnar ríður
atgeirnum þeitta búinn. Honum nær
dreyrrauðum hesti hleypir gumi fríður
og blán saxi gyrður yfir grund;
þar mátti kenna Kolskegg allur lýður.
Svo fara báðir bræður enn um stund;
skeiðfráir jóar hverfa framm að fljóti;
Kolskeggur starir út á Eyjasund,
enn Gunnar horfir hlíðarbrekku móti;
hræðist þá ekki frægðarhetjan góða
óvina fjöld, þó hörðum dauða hóti.
Sá eg ei fyr svo fagran jarðargróða;
fjenaður dreifir sjer um græna haga,
við bleikan akur rósin blikar rjóða.
Hjer vil eg una æfi minnar daga
alla, sem guð mjer sendir; farðu vel,
bróðir og vinur! Svo er Gunnars saga.

Því Gunnar vildi heldur bíða hel,
enn horfinn vera fósturjarðar ströndum.
Grimmleigir fjendur, flárri studdir vjel,
fjötruðu góðan dreing í heljar böndum.
Hugljúfa samt eg sögu Gunnars tel,
þar sem eg undrast enn á köldum söndum
lágan að sigra ógna bylgju ólma
algrænu skrauti prýddan Gunnarshólma.
Þar sem að áður akrar huldu völl,
ólgandi Þverá veltur yfir sanda;
sólroðin líta enn hin öldnu fjöll
árstrauminn harða fögrum dali granda;
flúinn er dvergur, dáin hamra tröll,
dauft er í sveitum, hnipin þjóð í vanda;
enn lágum hlífir hulinn verndarkraptur
hólmanum, þar sem Gunnar snjeri aptur.

---

## FJALLIÐ SKJALDBREIÐUR.

Fanna skautar faldi háum
fjallið, allra hæða val;
hrauna veitir bárum bláum
breiðan framm um heiðardal.

Laungu hefur Logi reiður
lokið steypu þessa við.
Ógnaskjöldur búngubreiður
ber með sóma rjettnefnið.

Ríð eg háan Skjaldbreið skoða,
skín á tinda morgunsól,
glöðum fágar röðulroða
reiðarslóðir, dal og hól.
Beint er í norður fjallið fríða
(fákur eykur hófaskell),
sjer á leiti Lambahlíða,
og litlu sunnar Hlöðufell.

Vel á götu ber mig Baldur,
breikkar stirnað eldasund.
Hvunær hefur heims um aldur
hraun það brunað framm um grund?
Eingin þá um Ísafoldu
unað hafa lífi dýr;
einginn leit þá maður moldu,
móðu steins er undir býr.

Titraði jökull, æstust eldar,
öskraði djúpt í rótum lands,
eins og væru ofan feldar
allar stjörnur himnarans;

eins og ryki mý eða mugga,
margur gneisti um loptið fló;
dagur huldist dimmum skugga,
dunaði gjá og loga spjó.

Belja rauðar blossamóður,
blágrár reykur yfir sveif,
undir hverfur runni, rjóður,
reynistóð í hárri kleif.
Blómin ei þá blöskrun þoldu,
blikna hvurt í sínum reit,
höfði drepa hrygg við moldu;
himnadrottinn einn það leit.

Vötnin öll, er áður fjellu
undan hárri fjallaþraung,
skelfast, dimmri hulin hellu,
hrekjast framm um undirgaung;
öll þau hverfa að einu lóni,
elda þar sem flóði sleit;
djúpið mæta, mest á Fróni,
myndast á í breiðri sveit.

Kyrt er hrauns á breiðum boga,
blundar land í þráðri ró;
glaðir næturglampar loga,
geislum sá um hæð og mó;

brestur þá og yst með öllu
í undirhvelfíng hraunið sökk;
dunar lángt um himinhöllu,
hylur djúpið móða dökk.

Svo er treyst með ógn og afli
alþjóð minni helgað bjarg;
Breiður, þakinn bláum skafli,
bundinn treður foldarvarg.
Grasið þróast grænt í næði,
glóðir þar sem runnu fyr;
styður völlinn bjarta bæði
berg og djúp; hann stendur kyr.

Hvur vann hjer svo að með orku?
aldrei neinn svo vígi hlóð;
búinn er úr bálastorku
bergkastali frjálsri þjóð.
Drottins hönd þeim vörnum veldur;
vittu, barn! sú hönd er sterk;
gat ei nema guð og eldur
gjört svo dýrðlegt furðuverk.

Hamragirðíng há við austur
Hrafna rís úr breiðri gjá;
varnameiri veggur traustur
vestrið slítur bergi frá.

Glögt eg skil, hví Geitskór vildi
geyma svo hið dýra þíng.
Enn þá stendur góð í gildi
Gjáin kend við almenníng.

---

## FJÖLLIN Á FRÓNI.

---

Hvað fögur er mín feðrajörð,
fjallkonan gamla, kend við ísa,
hvar tindar hátt úr hafi rísa,
hvítfölduð teygja jökla börð,
standa und hettum krystalls klárn,
sem kempur, er gylta hjálma báru,
:|: gnapa framm yfir gljúpan sjá,
þau geislum hellir sólin á! :|:

Þá Ásaþór sá Íslands fjöll,
á Snæfells jökli tók hann sæti;
þau fyltu hetju hug með kæti
og sjer til himins otuðu öll;
sjer framm af tindum vötnin veltu,
vinarödd Þór í eyrun heltu;
:|: þá geingu kempur hans á hönd,
því hetjuöld stóð um nordurlönd. :|:

Þá vissi eg heyja Hildar þrá
hamremmis trylta Íslendínga;
bláklæddir stóðu í brynjum hrínga
Gunnar og sterki Grettir þá.
Menn festu konu, enn fyrir hana
feingu tíðum á hólmi bana;
:|: deyjandi munnur orti óð,
þá oddur spjóts í hjarta stóð. :|:

Fornaldarsögu og fræðiljóð
framm þuldu menn í háttum vöndum;
þar stóðu skáld með hörpu í höndum,
hvar fjandmanns dundi dauðablóð;
þá voru kvæði í kónga höllum
kærust metin af leikum öllum;
:|: vjer geymdum þeirra vísnasöfn
um vorra feðra hreysti og nöfn. :|:

Enn grær á vorri ættarjörð
atorka sönn hjá traustum hölum;
enn er glaðvært í grænum dölum,
hvar gæfusæl sjer leikur hjörð;
enn sjáum lax og silúngsfansa
í silfurelfum ljósum dansa;
:|: fögur er saunglist fugla nóg
um fjörðu, eyjar, dali og skóg. :|:

Í sveitabóndans auga enn
eg ægishjálm hinn sama þekki,
fyr sem um hætta Hildar stekki
ógndjarfir hvestu afreksmenn;
kæta mig augun bláu og bliðu
bændadætranna heima fríðu;
:|: eins og þá Bragi Iðun sá,
þær ástir kveikja skáldi hjá. :|:

Heill sje þjer, kæra feðrafrón!
fjöll þín í gegnum eylífð standi;
þó vötn og eldar veröld grandi,
þau gleðji þinna sona sjón.
Ginnúnga upp úr gapi óholla
gráhærða rjettu fjalla kolla,
:|: svo vjer frá Gimli getum sjá,
hvar gamla Ísland forðum lá. :|:

## LANDAVÍSUR.

### Ísland.

Grænum lauki gróa túnin,
  gyllir sóley hlíða sillur,
færa víkur flyðru á vori,
  fuglar sýngja í Trölladýngjum,
sauðir strjálast hvítir um heiðar,
  hossar laxi straumur í fossi,
bella þrumur á brúnum fjalla,
  blár er hifinn, snarpur er Kári.

### Annað land.

Lopt er grátt, enn lítt man skipta
  lit sjófold, er öll er moldótt;
ilmlaus grös ern illa flosuð
  yfir móa grautar frjóa
efnum, þó að svín mani þrifna
  þrúðig undir Vendilbúðum;
bót er talin í búi ólítil
  beykiskógar og tjarnir gnógar.

## Írland.

Breytilegt er land að líta
leingi frægt á hörpustreingjum,
fjörðum skorið, flotið mýrum,
fult af nægt, þó sakni ræktar;
sjávarlónum söltum yfir
smaragðlitar brekkur glitra;
fossar þula í þraungu gili,
þreyttir aldri, dverga galdra.

## Skotland.

Skotland þykkir, skröva og ekki,
skuggalegt af þoku muggum;
nísk er jörð, þótt ekru arði
öld sje fjáð á þistilláði;
fjalla straumar fljóta of völlu,
Forth og Clyde eru prýði storðar;
hvurgi reisast hávar borgir
heldri tign, enn sífelt rignir.

## Eingland.

Orð er gjört af aldingarði
Einglafoldar síst vargoldit;
lifa of svörðu laufguð gerði,
leit er skömm að megnu hveiti;

skrýða fjörðu segl, enn súða
sægir þekja fljót og ægi;
æðihratt á ísarnslóðum
aldir hverfa Loka galdri.

## Holland.

Seig, hvort kyn sje lands eða lagar
loptgrá strönd í Rínar hvopti;
skerast inn of akra rennur,
æfivist hefir þjóð á sævi;
morna og kveld snýst mylnufjöldinn,
marar þolir iðna golu;
fullum seglum fljúga of völlu
fley á lagar þraungum veigi.

## Þjóðverjaland.

Hólar þýskir hygg eg feli
hvítan málm með jötna sálmi;
Dóná stríð með steypiflúðum
streymir yfir víntrjá geima;
frægt er landið fjalla skógum;
fríð eru torg og konúnga borgir
(eingi frá eg annað sýngi);
akrarækt man fjölga gnægtum.

### Austurríki.

Austurríki er í flestu
ágætt land, enn nokkur vandi,
orð að laga í öllu og gjörðir,
eins og líki Metterníki;
víst er góð í Lins, er læðist
Lág á Dónárbakka; fáir
una vísis ullbandsprjónum
á Spílbergi; þar ferst mergur.

### Spánland.

Spánn er fjall með feiknastöllum,
flatur á koll, enn ránar tolla
gjalda elfir; ærið silfur
út úr fargast Sagarbjargi;
suður gnóg er sæld í hlíðum;
sæt eru granateplin; kætast
drósir víni í Vandalhúsum;
vex þar auður af frjófgan sauða.

### Sýrland með Jórsalaheimi.

Sæluland er Syría talið,
síst því Móses of ljet hrósað;
steinn er gjör af gránu járni,
geysi málmur úr björgum leysist;

tinda keðros krýna viðir,
kælir Jórdán miðdags svælu.
Drottinn hjer var heilagur borinn;
hans berst lof yfir alda rofin.

## VORKVÆÐI.

Tinda fjalla,
áður alla
undir snjá,
sín til kallar sólin há;
leysir hjalla,
skín á skalla,
skýi sem að brá
og sjer fleygði frá.

Tekur buna
breið að duna
björgum á,
græn því una grundin má;
viður hruna
vatna funa
vakna lauf og strá;
seinna seggir slá.

Snjórinn eyðist,
gata greiðist,
gumar þá,
ef þeim leiðist, leggja á,
hleypa skeið
og herða reið
og hrinda vetri frá,
hverfur dimmu dá.

Prúðir sækja
lón og læki
laxar þá,
sumir krækja silúngsá;
veiðitækir,
sporðasprækir,
spretti hörðum á
fjalli fýsast ná.

Fjaðraljettir
flokkar þjettir
fugla þá
synda eftir sumará,
eða mettir
strönd og stjettir
stika til og frá,
kæta lopt og lá.

Ærin ber
og bærinn fer
að blómgast þá,
leika sjer þar lömbin smá.
Nú er í veri
nóg að gera
nóttu bjartri á,
hlutir hækkað fá.

Grænkar stekkur,
glöð í brekku
gánga kná
börnin þekku bóli frá;
kreppir ekki
kuldahlekkur;
kætist fögur brá
búa blómum á.

Rennur sunna,
sveinn og nunna
sjer við brá,
síst þau kunna sofa þá;
sætt er að unnast,
mjúkum munni
málið vaknar á,
fegurst höldum hjá.

Ekkert betra
eg í letri
inna má,
svo er vetri vikið frá;
uni fleti
hvur sem getur
heimskum gærum á,
önnur er mín þrá.

---

## SUMARKVEÐJA.

Fósturjörðin fyrsta sumardeigi
fagna vildi börnum sínum með;
henni fylgdi fjöldinn margvísleigi,
fuglar, ormar, hestar, menn og fjeð.
Furðu kyr, að fósturjarðar vilja,
fjöldi slíkur allur þögull stóð;
móðir, jörð, bað manninn framm að þylja
móti sumri hjartalaginn óð.

Hann þá kvað, til himins augum rendi:
hjartað lifnar við þinn komudag;
þig af hæðum þjóðafaðir sendi,
þegar til að greiða bágan hag.

Kom þú heill með himin-senda blíðu,
    blær þjer móti fold og eyjaband;
unan margföld ofan frá þjer líður
    yfir dal og fjall og haf og land.

Hægir brjósti, hlýnar lopt á kinnum,
    himinbláma mjúkan augun sjá;
horfin dimma hverfur burt úr minnum,
    himinljósi þegar fyrir brá.
Láttu stöðugt ljósið frá þjer skína,
    lán og unun veit í hvurjum stað,
uns að höfum alla blessun þína
    allir saman notað; verði það.

Hagadýrin höfði drápu niður,
    hvíldu grön á frammsprettandi rót;
gróðurilmi gripu lángeygð viður,
    gírug störðu jarðarsverði mót.
Mændi jörð á mergðir barna sinna,
    móðurástin djúpt í brjósti lá;
hnigu tárin heilög móðurkinna,
    heilög gleði skein á móðurbrá.

Kom þú heill, sem hýrgar limu kalda,
    heimtir aptur til mín sofnað fjör;
laung var stund, er ljósu mátti eg falda,
    leingi strauk eg nauðug freðna skör.

Kom þú heill, sem kólnað móðurhjarta
kærum aptur lífgar móðuryl,
lofar mjer í skrúða fögrum skarta,
skapar mínum börnum alt í vil.

Verið, börn mín! blíð og kát í sinni,
burt er liðin raunatíðin hörð;
finn eg sprikla fjör í gömlu skinni,
færist aptur líf í kaldan svörð.
Lítið á, hve líður yfir grundu
lifnað fjör í mjúkum sumarblæ;
brýnið raustu, börn! á gleðistundu,
barnarómur gleður móður æ.

Þá var kátt, er kvikar raddir súngu;
kom frá hjarta gleðirómur sá;
saung þar hvurt með sinnar móður túngu,
saman jarðarbörnin stór og smá;
meðan hestur makka reistan sveigði,
meðan brast úr nauti svírabljóð,
baula þollaus birkiklafann teygði,
básinn trað og hátt á öndu stóð.

Þaut í lopti þúngur vængja súgur,
þótti leiptra marglitt fjaðrablik;
fiðurbúinn fór til skýja múgur,
fagursaungva þreytti lætin kvik.

Úði krúði skorkvikinda skari,
skriðarsuðu teygði digran nið;
hljómar blendust hundrað raddafari,
há var tign í samanstiltum klið.

## DALVÍSUR.

Fífilbrekka! gróin grund!
grösug hlíð með berjalautum!
flóatetur! fífusund!
fífilbrekka! smáragrund!
yður hjá eg alla stund
uni best í sæld og þrautum,
fífilbrekka! gróin grund!
grösug hlíð með berjalautum!

Gljúfrabúi, gamli foss!
gilið mitt í klettaþraungum!
góða skarð með grasahnoss!
gljúfrabúi, hvítur foss!
verið hefur vel með oss,
verða mun það enn þá laungum,
gljúfrabúi, gamli foss!
gilið mitt í klettaþraungum!

Bunulækur, blár og tær!
bakkafögur á í hvammi!
sólarylur, blíður blær!
bunulækur fagurtær!
yndið vekja ykkur nær
allra best í dalnum frammi,
bunulækur, blár og tær!
bakkafögur á í hvammi!

Hnjúkafjöllin himinblá!
hamragarðar! hvítir tindar!
heyjavöllinn horfið á,
hnjúkafjöllin hvít og blá!
skýlið öllu helg og há,
hlífið dal, er geysa vindar,
hnjúkafjöllin himinblá!
hamragarðar! hvítir tindar!

Sæludalur, sveitin best!
sólin á þig geislum helli,
snemma risin seint er sest.
Sæludalur, prýðin best!
þín er grundin gæðaflest,
gleðin æsku, hvíldin elli.
Sæludalur, sveitin best!
sólin á þig geislum helli.

## SJERA ÞORSTEINN HELGASON.

Hvarmaskúrir harmurinn sári
harðar æsti, minst er varði;
vakna þeir ei, enn sýta og sakna,
seigjast ei skilja, hvað drottinn vilji;
þegar í á und ísi bláum
ástarríka hjartað í líki
friðað og kalt er sofið, þeim svíður,
sakna og trega, enn einginn vaknar.

Veit þá eingi, að eyjan hvíta
átt hefur daga, þá er fagur
frelsisröðull á fjöll og hálsa
fagurleiptrandi geislum steypti;
veit þá eingi, að oss fyrir laungu
aldir stofnuðu bölið kalda,
frægðinni sviptu, framann heptu,
svo föðurláð vort er orðið að háði.

Veit þá eingi, að eyjan hvíta
á sjer enn vor, ef fólkið þorir
guði að treysta, hlekki hrista,
hlýða rjettu, góðs að bíða;
fagur er dalur og fyllist skógi,
og frjálsir menn, þegar aldir renna;
skáldið hnígur og margir í moldu
með honum búa, enn þessu trúið.

Veit þá eingi, að eyjan hvíta
átt hefur sonu fremri vonum;
hugðu þeir mest á fremd og frægðir,
fríðir og úngir hnigu í stríði;
svo er það enn, og atburð þenna
einn vil eg telja af hinum seinni:
vinurinn fagri oss veik af sjónum
að vonum, því hann var góður sonur.

Og góður sonur getur ei sjena
göfga móður með köldu blóði
viðjum reyrða, meiðslum marða,
marglegá þjáða, og fá ei bjargað.
Guð er á himnum heima faðir
og hreldra barna, hvað sem veldur.
Særði bróðir, síginn í værðir!
hann sá þig glögt und ísi bláum.

---

# ÞÓRARINN ÖFJÖRÐ.

1.

Drynur und fjallsrótum, dimm eru ský,
döpur er sunna, enn náfölum í
jöklinum Skaptafells meinvættur mest
magnar þá dýnki, enn ólga framm sjest
fljóta undan fjalli yfir sanda.

Jökulfljót rennur á sandinum svart,
sent upp úr náheimum berg gegnum hart,
dökk gnæfa feigðarkuml eyrinni á,
sem ógróin leiði yfir jörðuðum ná
um kirkjugarð strjállega standa.

Í austri sjest jóreykur, gjörist þá gnýr,
guma sveit ríðandi að móðunni snýr,
sýslumaður Öfjörð og presturinn Páll,
prúðorður Benidikt (stansar þá áll),
og ýtar, sem fleiri þeim fylgja.

Drynur und fjallsrótum, dimm eru ský,
dauðinn þar kallar: ó, leggið út í.
Benidikt, Öfjörð og presturinn Páll,
prúðmennin, seigja þá: fær er sá áll,
enn þeim varð hann bana þó bylgja.

Þeir ríða þá jökulfljót svart allir samt,
og sem þeir frá landi komnir voru skamt,
dauðinn úr launsátri fjallsrótum frá
framm hljóp í öldu, úr jökli hvítblá,
með strauminum þeirra til þriggja.

Reiðskjótar duttu og duttu reiðmenn,
því dauðinn er sterkur, og allir þeir senn
losna frá fákum, enn fætur þó á
fírar tveir komust, enn prestur ei sá
framar á foldu að skyggja.

Frá unnunum svörtu til ljósheima leið
og lukkuna stríðlaust þá vissustu beið.
Hinir tveir, Öfjörð og Benidikt, brátt
bárust á grynníng, enn treystu ei mátt
aptur að leggja að landi.

Því Benidikt ellin hafði aflinu svipt,
enn Öfjörð hann studdi, til burtu gat kipt,
vatnskuldinu önd hans frá unnunum blá;
enn Öfjörð þá landstaddir fylgdarmenn sjá
einmana á eyrinni standa.

Hann veður þá út í og stefnir að storð
og sterklega framm brýst, enn búið er morð;

það drynur í fjallsrótum, dauðinn því lá
dapur í jöklinum; meinvætti þá
framm valt í annari öldu.

Enn strauminn hann kljúfandi lagði framm leið,
sem lífstraum í mótlæti; aldan framm skreið,
gnæfði yfir höfuð, og hækkaði þá
hlakk undir jökulrót, Skaptafells frá
helbruna býlinu köldu.

Með Þórarni Öfjörð í unnir þar hnje
atgjörvi, ráðvendni, jafnan í tje;
aldurtjón snillíngur úngur þar leið,
enn alsjeðan skaða þar fósturjörð beið;
sá helst til var harmurinn þúngur.

Forðastu að ríða þann feigðar um sand,
í fjallinu er Katla og ætlar þjer grand,
kaldhlátur dauða þar gellur í gjá,
enn grátandi Skaptafells landvættir tjá:
æ, hví dó hann Öfjörð svo úngur?

2.

Viður var mjer áður
vaxinn fríður að síðu;
vestan eg varði hann gusti,
varði hann mig austanblástrum.

Vatnsflóð hann rætti frá rótum,
ráð eru færri enn áður;
skjól þó að ekkert skýli,
skal ei vind hræðast svalan.

## GÍSLI BRYNJÓLFSSON.

1.

Föðurlandshlíða beltin bláu,
sem blikið demöntum móti sól!
og lifandi krystallslindir smáu,
lykkjaðar kríngum bala og hól!
og yðar systur, Ægis þar
alsilfurtyptu dæturnar!

Á yður sömu eg augum starði,
sem ýngissveinn á festarsprund,
enn mig þann tíma ekki varði
Öfjörðs og Gísla banastund;
föðurlands kæru unnir! ár!
ætt minni tvö þjer slóguð sár.

2.

Valkyrjur ísa hyggjuharðar,
  hvítar svífandi um Ránar slóð,
og sem við fjörur fósturjarðar
  feigðir boðandi kveðið ljóð,
og opt hið besta hrífið hratt,
hennar sem út af skauti spratt!

Oss var ei liðið enn úr minni,
  öldu næstfarnri þegar á
niður í svala yðvart inni
  Eggert hinn snjalla náðuð fá,
þars yðvarn viður arinsstein
enn þjer hans látin geymið bein.

Dýpsta þjer slóguð sár í sárið,
  þá sjera Gísla Brynjólfsson
hreppa þjer ljetuð heljarfárið;
  hann var föðurlands lyst og von;
hann mörgum eldri meiri var,
mest af jafnöldrum öllum bar.

Heimsspeki, allra menta móður,
  mest hann tignaði, og aptur hún
verðskuldaðan gaf honum hróður,
  honum og unni hin forna rún;

báðar hann prýddu og báðum tár
banastund hans þeim vakti sár.

Aldrei hann heimskan aldar blekti,
  óskiljanlegt að nefna rángt;
maðurinn vitri mannsvit þekti,
  mannsvit hann sá, að nær ei lángt;
fjarlægra sólum fjærstu á
fært er moldvörpum ekki að sjá.

Þess vegna hann orði trúar trúði,
  því trúarlausa sá hann víst
heimskan með armakræklum knúði,
  að kenna dýpstu visku síst,
og heimsku telja, hvað sem þar
heimsku ei eptir þeirra var.

Þessum þjer ræntuð, ísa unnir!
  og honum kærust móðurjörð
frá yður fyr ei kippa kunni,
  enn köldust yðar faðmlög hörð
önd hans burt leystu, enn í sitt skaut
andað hans þó hún líkið hlaut.

Víst mun hjá lýðum æ um aldir
  andaður lifa í sama ham,
sem honum nornin síðast valdi
  og sást hann í, þá stje hann fram;

sá úngur deyði, ætíð má
úngur í minníng lifað fá.

Enn sýta Kjartan Íslands meyjar,
úngan og fagran dáinn; enn
Akkiles gráta Grikklandseyjar;
Gísla svo munu um aldir menn
ókomnar syrgja úngan fá,
einginn því að hann gamlan sá.

---

## ÍSLEIFUR EINARSSON.

Nú er mæríngur moldu falinn,
móðurjörð föl sem visið lauf;
sannkölluð hnje þar hetja í valinn,
þá hýðið sjúka öndin rauf
Ísleifs, sem landi ísa mest
unni þess sona flestra og best.

Daprasta vitum Íslands árið,
útlent er þýið lýði sló;
æ mundi vansa svella sárið,
sem oss dugnaðarleysið bjó,

ef þess svartnættis einn af fám
ei væri hann stjarna á himni blám.

Í hjeraðs stýrslu úngur áður
ítrasta sýndi hann vit og magn;
í frammkvæmd bæði ör og gáður,
ei honum nægðist pappírsgagn.
Minníng í elsku æ mun hans
í ítrasta hluta Norðurlands.

Eins og hann þekti lesti lesti
og lasta iðgjöld þeim til fann,
svo þekti hann einnig bresti bresti
og bliðu með þá dæma vann,
enn lögum hlýðinn, landi trúr,
lagafarveigi vjek ei úr.

Því lýða vildi hann gagn ei gefa,
að geta sjer með því heimskra lof;
slíkt taldi hann fyrir utan efa
á eiði vera og skyldu rof;
sá hann, við skálka miskun mest
við menn er fróma grimdin vest.

Aldraður hann hjá úngum glæddi
óskir að verða prýði stands,
og orðum vitrum einatt fræddi
efni stýrenda þessa lands;

mörgu þar sáði hann, mörgu af því
mun þróast eitthvað landi í.

Einhvur tryggasti vinur vinum,
í verki sýndi trygð og dáð;
hreinn og einlægur öllum hinum,
aldrei gaf neinum Loka ráð;
sálarsterkasti, hjartahreinn,
hræddist drottinn, enn mann ei neinn.

Ísleifs má leingi Ísland sakna;
ef væru margir líkar hans,
dugnaður mundi að vísu vakna
víða í bygðum þessa lands,
og færri sættast ýtar við
embættisleti og stjórnleysið.

Þjer, úngu menn, sem Ísajarðar
eruð frammöld og hennar börn!
þá lítið græna leiðið svarðar,
sem líks er Ísleifs hinsta vörn,
yfir því vinnið eiðinn þann,
að elska föðurláð, sem hann.

## BJARNI THÓRARENSEN.

Skjótt hefur sól brugðið sumri,
því sjeð hef eg fljúga
fannhvíta svaninn úr sveitum
til sóllanda fegri;
sofinn er nú saungurinn ljúfi
í svölum fjalldölum;
grátþögull harmafugl hnípir
á húsgafli hvurjum.

Skjótt hefur guð brugðið gleði
góðvina þinna,
ástmögur Íslands hinn trausti
og ættjarðar blóminn!
Áður sat ítur með glöðum
og orðum vel skipti;
nú reikar harmur í húsum
og hrygð á þjóðbrautum.

Hlægir mig eitt það, að áttu
því uglur ei fagna,
ellisár örninn að sæti
og á skyldi horfa

hrafnaþíng kolsvart í holti
fyrir haukþíng á bergi;
floginn ertu sæll til sóla,
er sortnar hið neðra.

Glaðir skulum allir að öllu
til átthaga vorra
horfa, er hjeðan sá hverfur,
oss hjarta stóð nærri;
veit eg, er heimtir sjer hetju
úr harki veraldar
foringinn tignar, því fagna
fylkíngar himna.

Kættir þú margan að mörgu,
svo minst verður leingi,
þýðmennið, þrekmennið glaða
og þjóðskáldið góða!
Gleðji nú guð þig á hæðum
að góðfundum anda;
friði þig frelsarinn lýða,
far nú vel, Bjarni!

---

## SVEINN PÁLSSON.

Eins eru skýin, sem áður,
í elli þú mæltir,
þegar bölheimur brigðull
baki að þjer snjeri.
Andi sveif þinn hið efra;
hið efra honum móti
hýrlega hló og benti
til heimkynna rjettra.

Eins voru blómin, sem áður,
í augum þjer, frændi!
þá hneit þjer hjarta hið næsta
hjörinn forlaga;
brotnuðu boðar mótlætis
á baki þjer sjálfir,
enn seggir sáu þig standa
hinn sama og áður.

Frjáls þinn og auðugur andi
sjer átti og nýtti
álfaslot hvurjum í hamri
og hægindi í skýjum,

búgarð hvurs í blómsturs
bikari miðjum,
og hvurn til viðtals sjer valdi
af vitríngum liðnum.

Örlaga örvar því náðu
þig aldrei að fella,
að undan færi þinn andi
ætíð sjer hafði;
var hann að leikum með liðnum
eða ljósálfum muna,
harmanornir þá heima
hann hugðu að finna.

Bautastein Bjarna þú reistir
og bautastein Jóni;
sjálfum þjer settir þú varða,
er seint munu falla.
Barna vor börn munu lofa
blómstrin þíns penna,
og margur leita þess leiðis,
hvar liggur Sveinn Pálsson.

## ODDUR HJALTALÍN.

Enginn ámælir
þeim undir hömrum
liggur lifandi
með limu brotna,
og hraunöxum
holdi söxuðu,
að hann ei æpir
eptir nótum.

Undrast enginn,
upp þó vaxi
kvistir kynleigir,
þá koma úr jörðu
harma funa
hitaðri að neðan
og ofan vökvaðri
eldregni tára.

Ámæli því enginn
Oddi Hjaltalín,
orð þó hermdi hann,
er hneixluðu suma;

það voru frostrósir
feigðarkulda,
harmahlátrar
og helblómstur.

Því alt frá æsku
ætíð honum
heims sig hamíngja
hverfula sýndi;
fátækt honum fylgdi
á fundi alla,
enn harmar biðu hans
heima optast.

Konúngs hafði hann hjarta
með kotúngsefnum;
á líkn við fátæka
fátækt sína ól;
öðrum varð hann gæfa,
ei sjer sjálfum,
og hjálpaði sjúkur
til heilsu öðrum.

Önd hans þó var auðug,
og þegar harma
björg og vanheilsu
á brjósti honum lágu,

braust hún undan fargi
og bjó í skyndi
skrípitröll, skjaldmeyjar
og skóga hugmynda.

Harma þá um stund
hennar glöptu
þær enar kátlegu
kynjamyndir.
Aðra þær hneixluðu,
enn Oddur bygði
sjer þar hlátraheim,
er heimur grætti.

Þeigir nú Oddur,
enu augun liðnu
eptir önd
í eilífð stara;
hún þar heim
hefur slíkan,
að betri ei
sjer byggja þarf.

Enn þú, sem undan
æfistraumi
flýtur sofandi
að feigðarósi,

lastaðu ei laxinn,
sem leitar móti
straumi sterklega
og stiklar fossa.

---

## MAGNÚS PRESTUR EINARSSON.

Nú grætur mikinn mög
Mínerva táragjörn;
nú kætist Móría mjög,
mörg sem á dárabörn;
nú er skarð fyrir skildi,
nú er svanurinn nár á Tjörn.

---

## SAKNAÐARLJÓÐ.

Þá var eg úngur,
er unnir luku
föður augum
fyrir mjer saman;

man eg þó missi
minn í heimi
fyrstan og sárstan,
er mjer faðir hvarf.

Man eg afl andans
í yfirbragði,
og ástina björtu,
er úr augum skein;
var hún mjer æ,
sem á vorum ali
grös hin grænu
guðfögur sól.

Man eg og minnar
móður tár,
er hún aldrei sá
aptur heim snúa
leiðtoga ljúfan,
ljós á jörðu
sitt og sinna;
það var sorgin þýngst.

Mjög hef eg síðan
til moldar gánga
ættmenni best
og ástvini sjeð.

Þá vill hugur
harma telja,
þegar böl búið
er brjósti nýtt.

Sá eg hinn góða,
er guði treysti,
úngan og öflgan,
ættjarðar von,
Lárus á bana
bólstur hníginn,
líki líkan,
er eg land kvaddi.

Sá eg með Dönum
í dauðra reit
Baldvin úr bruna
borinn vera,
fríða, fullstyrka
frelsishetju;
söknuður sár
sveif mjer þá að hjarta.

Sá eg Torfa,
trygðreyndan vin,
hraustan, hreinskilinn
og hjartaprúðan,

lífi ljúka
og lagðan vera
ættjörðu fjær,
er hann unni mest.

Átti eg eptir
enn í heimi
úngan og fagran
ættarblóma;
vel mundi kæta,
vel mundi bæta
laufgrænn kvistur
lágan runna.

Það man eg yndi
öðru meira,
er við Skapta
skilníng þreyttum,
eður á vænum
vinafundi
góða geðspakur
á gleði jók.

Sá eg þig, frændi!
fræði stunda,
og að sælum
sanni leita,

þegar röðull
á rósir skein,
og blá dögg beið
á blómi sofanda,

Er þú á hæsta
hugðir speki,
og hátt og djúpt
huga sendir.
Of eru myrk
manna sonum,
þeim er hátt hyggja,
hin helgu rök.

Brann þjer í brjósti,
bjó þjer í anda
ást á ættjörðu,
ást á sannleika;
svo varstu búinn
til bardaga
áþján við
og illa lýgi.

Nú ertu lagður
lágt í moldu,
og hið brennheita
brjóstið kalt.

Vonarstjarna
vandamanna
hvarf í dauða djúp,
enn drottinn ræður.

## Á GÖMLU LEIÐI.

Fundanna skært í ljós burt leið,
blundar hjer vært á beði moldar,
blessaðar fært á náðir foldar,
barnið þitt sært, ó beiska neyð!

Sofið er ástaraugað þitt,
sem aldrei brást að mætti mínu;
mest hef eg dáðst að brosi þínu,
andi þinn sást þar alt með sitt.

Stirðnuð er haga höndin þín,
gjörð til að laga alt úr öllu,
eins ljett, og draga hvítt á völlu
smámeyjar fagurspunnið lín.

Vel sje þjer, Jón! á værum beð,
vinar af sjónum laungu liðinn,
lúður á bón um himnafriðinn.
Kalt var á fróni, Kjernesteð!

Sloknaði fagurt lista ljós.
Snjókólgudaga hríðir harðar
til heljar draga blómann jarðar;
fyrst deyr í haga rauðust rós.

---

## MÓÐIRIN VIÐ GRÖFINA.

---

Kæra barn mitt! korri ró,
kúrðu vært og sof nú leingi;
vekja þig af vænni ró
verkjatök nje meinsemd eingin.

Húsið þitt er hlýtt og byrgt,
harðviðra svo verjist straumi;
hræðstu ei, þó hjer sje myrkt,
himneskt ljós þú sjer í draumi.

Hræðstu ei við hret nje storm,
hann þjer eingar getur kvalir,
og ei, þó heyrir höggva orm
húngraðan á kistufjalir.

Þegar í beinum ylur er,
og ekki þínu dufti minnur,
þegar þig hiti höndum fer,
svo hreifíng, líf og krapta finnur,

Þegar þú eld frá austri sjer
inn um þreingjast jarðar rætur,
og öndin bendir únga þjer,
æ kom þá, mitt barn! á fætur.

Þá er drauma þrotin stund,
þá er sjónarhríngur fagur,
þá skal kasta þúngum blund,
þá er runninn mikill dagur.

## GRÁTUR JAKOBS YFIR RAKEL.

Hvurt er farin hin fagra og blíða?
    fórstu, Rakel! í svipanna heim?
fyrir sunnu sje jeg nú líða
    svarta flóka og dimmir í geim.
Rakel! Rakel! daprast nú dagar,
    dvín mjer gleði, brátt enda mun líf;
leiðir eru mjer ljósgrænir hagar,
    liggur í moldu hið ástkæra víf.

Fyrir henni fjórtán í vetur
    föður ágjörnum þjóna jeg vann;
aldrei gekk mjer erfiði betur,
    í augum meyjar því svölun eg fann.
Nú er brostið hið blikandi auga
    (byrði er æfi harmandi lund);
gráa tárin lokka því lauga,
    liggur í moldu hið svarteyga sprund.

Var eg í Sikkems vorsælu dölum
    vífi meður í Kanaans sveit;
nærri Jórdánar blómríku bölum
    bjuggum við í sælunnar reit.

Einn nú situr hinn aldraði halur
úti dapur um miðnæturstund;
blómi er ræntur hinn blessaði dalur,
býr í moldu hið hugljúfa sprund.

Opt við sátum í iðgrænum hlíðum,
öllum fegri var svanurinn minn;
bljes af Líbanon blíðvinði þíðum,
blöktu hrafnsvartir lokkar um kinn.
Ástin hverfur, og eptir vjer stöndum,
eins og birkin hrísla í lund;
brjóst til einskis ber eg með höndum,
býr í moldu hið dökkhærða sprund.

Nú í Edar jeg einmana hjari,
önd þín, Rakel! sleit af sjer bönd;
eptir burtförnum anda jeg stari
eins og maður, sem dapur á strönd
mænir eptir fleyi, sem flytur
fjærri vini um hyldýpissund.
Sál mín bugast, sorgin er bitur,
sefur í moldu hið elskaða sprund.

Grátið, Ísraels dökkeygu dætur!
dauðinn kaldur á rósina stje;
laugi társtraumar Líbanons rætur,
laufgur kedros að jörðu því hnje;

ymjið, Basans eikur á tindi!
    illum stormi vaktar af blund;
sakna, Jórdán! svipt ertu yndi,
    sefur í moldu hið inndæla sprund.

Drottinn Abrahams! deyr nú minn rómur,
    dauðans skuggi í hjarta mjer er;
drottinn Abrahams! auður og tómur
    er nú heimur og dagsbirta þver;
drottinn Abrahams! barn þitt sjá bifa,
    blóðug falla tár þess á mund;
drottinn Abrahams! lát mig ei lifa,
    liggur í moldu hið harmdauða sprund.

Aleinn, aleinn í alheimnum víða,
    öllu sviptur og voninni með,
á jeg leingi enn hjer að bíða?
    eg hef fegurð bliknaða sjeð.
Lát mig gráta, það eptir er ára,
    yfir visnuðum blómum á grund;
mjer banna ei svölun brennandi tára,
    býr í moldu hið fölnaða sprund.

Set mig þar, sem svartnætti drottnar,
    sunnu ljómi þars aldreigi skín,
á eyðisöndum alda þars brotnar,
    alt er dauði, og lífsandi dvín;

lát hinn farmóða ver þar í vindum
(vana gleði jeg burtu nú svíf)
sitja þyrstan að svölunar lindum,
sefur í moldu hið ástkæra víf.

## EIGI MÁ EK Á ÆGI.

Eigi má ek á ægi
ógrátanndi líta,
sízt er málviner mínir
fyrir marbakkann sukku.
Leiðr er mjer sjófar sorti
ok súganndi bára;
helldr gjörði mjer harðan
harm í unna farmi.

# ALDARHÁTTUR.

Áður á tíðum
var tíðska hjá lýðum
(svo tryggorðir kendu),
frá barndómi blíðum
með fremdarhag fríðum
að frægðum sjer vendu;
af streingboga stríðum
í Hárs eldar hríðum
þeir herskeytin sendu,
eða á mar víðum
skervallar skíðum
til skemtunar rendu.

Manndómur mundi,
þar sveinar á sundi
sóttust af afli;
einn sat í lundi
hjá litfögru sprundi
og ljek sjer að tafli;

hinn þar við undi,
sem hátt knöttur hrundi
eða handsaxa kafli;
lof þeim að dundi,
sem frægð bar af fundi,
með fann-deigul-skafli.

Verfákum vöndum
með bifroknum bröndum
þeir bægðu frá láði;
byr saung í böndum
á brimvallar gröndum,
þá beittu við gráði;
geir rumdi í röndum,
þar rík þjóð í löndum
ríta jel háði;
gnótt var í höndum,
gekk lið af ströndum
með gló-Kraka-sáði.

Ý bendum skutu,
enn álmdrósir þutu
í andfari þunnu;
hurtsteingur brutu,
enn hátt skildir hrutu,
þar herfákar runnu;

benfossar flutu,
enn lágt hinir lutu,
sem lítt verjast kunnu;
sæmdarráð hlutu
og síns afla nutu,
þeir sigurinn unnu.

Armi hvortveggjum
á liðs handar leggjum
þeir ljós mundar hreifa;
glatt skein á seggjum
með geim-foldarneggjum,
svo gramsrúnar leyfa;
dígulfarms dreggjum
á valborgar veggjum
vildu menn dreifa;
í Ángantýrs hreggjum
undateins eggjum
ótrauðir veifa.

Ósæmdir biðu,
þeir ofríki liðu
og ekki sín hefndu;
djarfir framm riðu
í dyn Sköglar hviðu
og dreingskapinn efndu;

tröllmarir skriðu
að undasylgs iðu,
þá oddaþíng stefndu;
lítt fyrir kviðu,
nje sár, þó þeim sviðu,
til sorgmála nefndu.

Spakvitrir spáðu,
þeir gjörla margs gáðu
og glöggskyggnir váru;
kænt niður kljáðu,
þá kífþrætur háðu,
úr kappmálum skáru;
trygga sig tjáðu,
enn tálið forsmáðu,
því trútt hjarta báru;
meir gáfu, enn þáðu,
og því víða náðu
þjóðræmi kláru.

Ísland má sanna,
það átti völ manna,
þá alt stóð í blóma;
glæ sóttu hranna
til ríkra kóngsranna,
vel reyndir að sóma;

ýmuleiks anna
þeir ym þorðu kanna,
sem yrki forn róma;
ilþorns og tanna
óx æði varganna,
þar einn beitti skjóma.

Þeir báru hjálma
og mjög drifna málma
Mardallar gráti;
brjóst fleinar fálma,
í sárelda sálma
framm sóttu með gáti;
spor Mistar skálma
og spjörflugur tálma
spreytínga státi;
valjarðir jálma
við upp dregna álma,
svo alt var á bjáti.

Land lögum vörðu,
þeir vitug ráð gjörðu,
svo vandræðin bættu;
fyr frelsi kjörðu,
enn Fofnis skriðjörðu,
þó flest kostar ættu;

geði, þá hörðu
var hótað, einörðu
með hugprýði mættu;
manndáð ei spörðu
við nýta seims Njörðu,
ef nærri lá hættu.

Nú er öld snúin,
á aðra leið búin,
þar yfir má klaga;
frækleikur lúinn
af landi burt flúinn,
því líða menn baga;
röksemdin rúin,
sjest rýr vina trúin
og rekin úr haga;
ágirnd framm knúin,
enn grær lastagrúinn,
flest geingur aflaga.

Úngdómsins æði,
þó áður fyr stæði
til afreka hárra,
losti, sjálfræði,
leti, svefn bæði,
það líst þeim nú skárra;

vits kulnar sæði
á vinds Hyrjar svæði,
því veldur geð þrárra;
að lesa góð fræði
og læra siðgæði,
er lunderni fárra.

Dug lægir heima,
sem faldbúin feima,
við fletin sjer halda;
beitilúng geima
er bannað að sveyma
um bláröstu kalda;
menn má nú dreyma
til sörva blikseima,
enn sjálfir þó valda;
hugprúðir heima
þeir harðfeingi gleyma
við Hlakkar rof tjalda.

Nokkrir ef þræða
um fáks rákir flæða
til fremdar hagsbóta,
frestskuldir fæða,
því fje lítið græða
má fordildin ljóta;

raupyrðin ræða,
þó rýr sje ástæða,
því reynslan vill þrjóta;
nýbreytni klæða,
enn kljena siðgæða
þeir kynníngu hljóta.

Svo þverra listir,
því mjög eru mistir,
þeir mentirnar auki;
menn sitja tvistir
og bragðhnígnir bistir
í húsorgar hnauki,
alt eins og kvistir
af hretviðri hristir
á hráviðar lauki;
margur því gistir
þær vesældar vistir,
þó výlmóður þrauki.

Kostir sjást farnir,
þar fólknárúngarnir
þeim framandi hlýða;
dúksbræður svarnir
og glysmála gjarnir
svo gjörast nú víða;

Fenju dragkvarnir,
í fjemútu sparnir,
um farveiginn skríða;
innlendir barnir,
þó eingar fá varnir,
þeir ofríki líða.

Atburðir þrjóta
til hraustlyndis hóta
í hugmóði sveina;
skútyrðum skjóta
og rógsmálum róta,
það röksemdir meina;
hrakspárnar hrjóta,
þeir hvur öðrum blóta,
enn hinn grípur steina;
fjörlausnar fóta
þá fýsir að njóta,
ef framar skal reyna.

Rauparinn telur
þær vígs allar vjelur,
sem veit hann sjer granda;
á orðum hrafn elur,
sem gráðsoltinn gelur,
við gný þrumu randa;

hræðslan þá kvelur,
ef kokks hnífagrjelur
þeim koma til handa;
í næstu hljóp felur,
sem nót flýi selur,
og niðri hjelt anda.

Mannkosta lægðir,
enn lastanna nægðir,
í landinu spretta;
út geingu frægðir,
þar inn komu slægðir
og athafnir pretta;
náskyldir, mægðir,
með róg eru rægðir,
svo reynst hefur þetta;
litlar fást hægðir,
enn það væri þægðir,
ef því vildi ljetta.

Horfist til baga,
þar yfirmenn aga
þeim óhlýðnu spara;
múturnar draga
sjer liðsinni laga,
þó leynt eigi fara;

ágirndin raga
kann alt eins að klaga
og einnig forsvara;
til og frá slaga,
tálbrögðum haga,
því taktu þjer vara.

Hvur vildi greina
það alt efni meina,
sem á falla náði?
hljótt margir kveina,
enn hjá sjer þó leyna,
sem hugboðið tjáði.
Innbúa steina
skal braut snúa beina
í Þyr-Hveðru-gráði
sundferjan seina,
þó átti grjer eina,
að óðstöðvar láði.

Mart mætti henda,
sá vill hug til venda
og við kannast næði,
efni bágenda,
sem oss gjörir benda
og aflar nú mæði.

Aldarhátt kenda
í sýn margra senda,
má seigja vandræði.
Flest tekur enda,
eg læt þar við lenda,
og lykta svo kvæði.

## LÁNGLOKA.

Heimi er farið að halla,
í helið girnist falla;
kvöl má stærstu kalla,
kúgunin drepur alla;
blessun ágirnd slysar slýng,
slóttug orðin gjalla;
málum rjettum þrykkja þíng,
þverúð dómarar spjalla;
kærleiksleysið kefur dáð,
kveikir alls kyns banvæn ráð,
    nemur náð,
    svo heipt og háð
hylur tinda fjalla;

björg er af landi flett og fláð,
enn flærð og svik, ef að er gáð,
hanðrið hrjáð,
fyrir báli bráð
og býsna drífusalla.
er hleðst á holtastalla
og hvítan jökulmjalla
hraunkalla með galla;
stríðin emja,
lýði lemja,
löndin, kónga og jalla;
þussar í bölvun bralla,
hugar þá hefndin valla.

---

## FLÆRÐARSENNA.

Annars erindi rekur
úlfur, og laungum sannast það;
læst margur loforðsfrekur,
lítt verður úr, þá hert er að;
meðan slær orð við eyra
er þjer kær vinur að heyra;
sjertu fjær, svo er það ekki meira.

Slíkt er hyggindi haldin,
höfðíngsskapur og mentin prúð;
veröldin falsi faldin
fóðrar sinn kjól með skollahúð;
lærð er á lymskubeglur,
leynt sjer hjá fann þær reglur,
sem köttur sá, sem kreppir að hvassar neglur.

Opt er fagurt í eyra
alþýðulof, af hræsni veitt;
hinum, er á það heyra,
heimur þykir, sem kálfskinn eitt;
í augun greið hlæja og hlakka,
hrósa um leið, biðja og þakka,
enn búin er sneið, þá snúa þeir við þjer hnakka.

Heimskur er sá, sem heldur
hvurs manns loforð, sem fullgjört sje;
einfaldur opt þess geldur,
alvöru meinar, það hinum er spje;
trygðagjöld táls með korni
temprast köld, nema við sporni;
vinur í kvöld, enn vjelar þig strax að morni.

Heimurinn hrekkjafulli
handverk þetta mest brúkar nú,
að fóðra eir með gulli,
út geingur honum myntin sú;

orðaglens ei þarf kaupa,
allir ljens með það hlaupa,
kossaflens, kalsa, ljúga og raupa.

Sá hefur best úr býtum,
er búið getur að sínu einn,
frjáls af lymskunnar lýtum,
lifir og deyr svo hjartahreinn;
trygðum víst vjel nú farga,
veröld snýst, hvur vill bjarga?
ráð er síst, að reiða sig upp á marga.

## ÓHRÆSIÐ.

Ein er upp til fjalla,
yli húsa fjær,
út um hamra hjalla,
hvít með loðnar tær,
brýst í bjargarleysi,
ber því hyggju gljúpa,
á sjer ekkert hreysi
útibarin rjúpa.

Valur er á veiðum,
vargur í fugla hjörð,
veifar vængjum breiðum,
vofir yfir jörð;
otar augum skjótum
yfir hlíð, og lítur
kind, sem köldum fótum
krapsar snjó og bítur.

Rjúpa ræður að lýngi
(raun er ljett um sinn),
skýst í skafrenníngi
skjót í krapsturinn,
tínir, mjöllu mærri,
mola, sem af borði
hrjóta kind hjá kærri,
kvakar þakkarorði.

Valur í vígahuga
varpar sjer á teig,
eins og fiskifluga
fyrst úr laungum sveig
hnitar hrínga marga;
hnífill er að bíta:
nú er bágt til bjarga,
blessuð rjúpan hvíta!

Eltíng ill er hafin,
yfir skyggir jel;
rjúpan, vanda vafin,
veit sjer búið hel;
eins og álmur gjalli,
örskot veiginn mæli,
fleygist hún úr fjalli,
að fá sjer eitthvurt hæli.

Mædd á manna besta
miskun loks hún flaug;
inn um gluggann gesta
guðs í nafni smaug;
úti garmar geltu,
gólið hrein í valnum;
kastar hún sjer í keltu
konunnar í dalnum.

Gæðakonan góða
grípur feigin við
dýri dauðamóða,
dregur háls úr lið;
plokkar, pils upp brýtur,
pott á hlóðir setur,
seigir happ, þeim hlýtur,
og horaða rjúpu jetur.

---

## HEYLÓARKVÆÐI.

Snemma lóan litla í
lopti bláu dirrindí
undir sólu sýngur:
lofið gæsku gjafarans,
grænar eru sveitir lands,
fagur himinhríngur.

Jeg á bú í berjamó,
börnin smá í kyrð og ró
heima í hreiðri bíða;
mata jeg þau af móðurtrygð,
maðkinn tíni þrátt um bygð
eða flugu fríða.

Lóan heim úr lopti flaug
(ljómaði sól um himinbaug,
blómi grær á grundu),
til að annast únga smá;
alla jetið hafði þá
hrafn fyrir hálfri stundu.

# ÓLUND.

Háum helst und öldum
hafs á botni köldum
vil jeg lúin leggja bein;
á hálu hvílast þángi
í hörðum sjóargángi,
undir höfði unnarstein.

Er á sumrum sunna
í svalar voðir unna
vefur bjartra geisla glit,
þá í dimmum draumi
djúpt í marar straumi
fölur meðal fiska eg sit.

Og á dauðra drauga
döpru og brostnú auga
horfi kaldan hrikaleik;
eða jeg stúrinn stari
á stirðnuð, sem í mari
liðinna volkast líkin bleik.

Og þó einginn gráti
yfir mínu láti,

hvorki sveinn nje svanni neinn,
mun yfir mjer þó dynja
mar, og þúngan stynja
dökkur bylgjubarinn steinn.

## MUNDU ÞIG, MAÐUR! Í MUNDÓ.

Mundu þig, maður! í mundó,
mundus svik býr undir;
mundu, að sjá við mundó,
því mundus prettar stundum:
mundu þig fyrir mundó,
mundus er hrekkjalundur;
mundu, að komast frá mundó.
mundus! á drottins fundi.

# MART ER MANNA BÖLIÐ.

Mart er manna bölið,
misjafnt drukkið ölið
lífs um tæpa tíð;
í dag byljir bíða,
bjart er loptið fríða,
á morgun hregg og hríð;
viltur er sá,
sem væntir á
staðfast leingi
gleðinnar geingi,
gjörvöll hverfur blíða.

Eg var úngur maður
alheill, sæll og glaður,
ljek við holdsins hátt;
lukkan ljet í hæfi
lángt framm eptir æfi,
fjell til rauna fátt.
Minn var þá
þánki sá,
þann veg enda
láta og lenda
lundblíð mundi gæfa.

Enn þá tvisvar tvenna
taldist búinn að renna
tugana æfi af,
hófst upp heilsuránið,
hvarf hið fyrra lánið
alt, sem auðnan gaf,
eins og ryk,
augnablik,
ókyrt hjól,
vindblásin bóla,
báran, ar eða máni.

Fyrir framm að þekkja
forlög sín, kann blekkja
mann á margan veg;
væntir hann góðs án gátu,
geði því bráðlátu
sýnist seinka mjög;
enn trúa spá
um þraut og þrá,
það fyrir tíma
er talið að stíma
og tapa skapi kátu.

Sá, sem heppni hlýtur,
hefur rjett af sjer vítur,

ef hann óttast guð;
ei um ofsæld hirðir,
æ fyrir metnað girðir
og festir ei önd við auð;
huggun hýr
hreldum býr,
kalda og snauða
kristí sauði
klæða og fæða virðir.

Hinn, er kremst í kvilla,
þó kroppurinn láti illa,
iðki innra mann;
sjálfs guðs orði sinna,
sig á það að minna
af elsku hann hirtir hann;
þol og bið
að þruma við,
það er sú frægð,
sem lætur hinn lægða
líða og yfirvinna.

Gjör þú mig, læknir lýða!
lausan við þann kvíða,
er syndin eykur önd;

iðuna unda þinna
á hana láttu vinna,
helta í trúar hönd;
lækníng sú,
traust og trú,
tekur af mæðu
instu æða
og andargrandið stinna.

Hrjáð er holdið líka,
hrellíng kantu slíka
sjálfur að bæta best;
gjörðu eitt orð að inna,
óleum náðar þinnar
líkams böl og brest
lætur þá
lækníng fá,
linast meinin,
bognuð beinin
bótina skjóta finna.

Enn ef þú vilt eigi
eg upp frá þessum deigi
færist fætur á,
þá skal þessu taka.

þig biðja og kvaka,
að senda þol í þrá;
húss þíns ker
hold mitt er;
hvort það er lamað,
heilt eður kramið,
hvað má eg það ásaka?

Þegar eg loks upp leysi
lúinn úr þessu hreysi,
dvínar ánauð öll;
jesús hold mun hýsa,
enn helgri sálu vísa
í sína himnahöll;
og hún skær
þar alheil fær
aptur sóma
á dýrðardómi;
sá dagur mun fagurt lýsa.

Þá mun tárin þerra
þýður náðar herra
öll af augum mjer,
og þann, eymdir ama,
upprisinn líkama
setja í dýrð hjá sjer;

vil eg þjer þá
heiðurinn há
í helgra gildi,
græðarinn mildi!
gjalda um aldir alda.

## HVURT SINN Á HAF BLÁ.

Hvurt sinn á haf blá
halda maður ei má,
eða af ótta þá
öldum sneiða svo hjá,
að hann leggi í lá
landinu svo skamt frá,
að skip meigi á grunn gá.

Hvur, sem með geð hægt
hóf elskar gullvægt,
hans fær ei hug lægt
hreysið fult af órækt,
eða sjer að krækt,
öfundina við flækt,
kóngshalla hoffrækt.

Opt vindar eik þjá,
ef að hún er mjög há;
stórir turnar föll fá
frekara, enn hús smá;
tindar fjöllum upp á,
er í loptið hæst ná,
af skruggum skell fá.

Við mentað brjóst bjó
sá, bíður eptir hugfró,
þá amar neyð og óró;
enn ef lukkan mót hló,
kvíðir fyrir flatsjó;
færir vetur og snjó
guð á og af þó.

Þó áður þjáði, og enn, lýð
örðug mótgángshríð,
kemur þæg og þýð
þess linun um síð;
hörpu vekur hljóð blíð,
hendir ei bogann í stríð,
alvaldur altíð.

Hugprúðum halt þjer,
ef hjartað þitt böl sker;

enn ef lukkan ljer
lánbyr og nóg kjör,
ofdrambið af sker,
og segl, ef hátt er,
síga láttu, sem ber.

## EI GLÓIR Æ Á GRÆNUM LAUKI.

Ei glóir æ á grænum lauki
sú gullna dögg um morgunstund,
nje hneggjar lopt af hrossagauki,
nje hlær við sjór og brosir grund;
:|: guð það hentast heimi fann,
það hið blíða blanda stríðu;
alt er gott, sem gjörði hann. :|:

Ei heldur jel frá jökultindi
sjer jafnan eys í klakað strá,
nje nötrar lopt af norðanvindi,
sem nístir jörð og djúpan sjá;
:|: guð það hentast heimi fann,
það hið stríða blanda blíðu,
alt er gott, sem gjörði hann. :|:

Því lyptist brún um ljósa daga,
  þá lundin skín á kinnum hýr;
því síkkar hún, þá sorgir naga
  og sólar ljós með gleði flýr;
:|: hrygðin burtu hverfur skjótt,
  dögg sem þorni mær á morni,
uns hin raka nálgast nótt. :|:

Þú, bróðir kær! þó báran skaki
  þinn bátinn hart, ei kvíðinn sjert,
því sefur logn á boða baki
  og bíður þín, ef hraustur ert:
:|: hægt í logni hreifir sig
  sú hin kalda undiralda,
ver því ætíð var um þig. :|:

---

## ÞÁ EYMDIR STRÍÐA Á SORGFULT SINN.

Þá eymdir stríða á sorgfult sinn
og svipur mótgángs um vánga ríða.
þá baki vendir þjer veröldin,
í vellyst brosir að þínum kvíða,

þeink alt er hnöttótt og hverfast lætur,
sá hló í dag, sem á morgun grætur,
alt jafnar sig.

## TIL APPOLLONS.

Um hvað biður
óðarsmiður
Appollín
auðmjúk viður áheit sín,
offursiðum
að þá niður
ágætt tappar vín,
nýtt í skál er skín?

Síst mun jarðar
auðugs arðar
óska sá
feitri Sardinía frá;
kröfur sparðar
kátrar hjarðar
kalabriskum á
sólváng þeigja þá.

Eld um hrannar
Indíanna
og eðalstein
fæst ei hann nje fílabein,
ei um ranna
tún, sem tannar,
tíðum hljóð og sein,
Líris, á sú ein.

Þeir, sem veiga
við að eiga
veitt er, hann
kúga meiga kaliskan;
víns ódeiga
taki teyga
af tríglum gulls kaupmann,
Sýrland við sem vann.

Hann má, stórum
himinstjórum
hjartasár,
þrem og fjórum
sinnum sjár
sigla jórum
síkn með órum
samandreigins fjár
Atlantshaf hvurt ár.

Alt fyrir þetta
olívu metta
eg mig læt,
malvan ljetta mjer er sæt;
meðal rjetta
sig framm setta
síkória mæt
tjáir allvel æt.

Míns að neyta,
virðst mjer veita,
vel með ró
brauðs, er sveita dygð að dró,
lund með teita,
heila og heita,
hraustum kroppi í þó,
æðstur Appolló!

Einginn falli
ærugalli
á aldinn mig,
gamli kallinn gleðji sig;
hjá mjer gjalli
hljómurinn snjalli,
harpan iðuglig,
alt á efsta stig.

---

## VÍSUR ÍSLENDÍNGA.

Hvað er svo glatt, sem góðra vina fundur,
er gleðin skín á vonarhýrri brá?
eins og á vori laufi skrýðist lundur,
lifnar og glæðist hugarkætin þá
og meðan þrúgna gullnu tárin glóa
og guðaveigar lífga sálaryl,
þá er það víst, að bestu blómin gróa
í brjóstum, sem að geta fundið til.

Látum því, vinir! vínið andann hressa,
og vonarstundu köllum þenna dag,
og gesti vora biðjum guð að blessa
og best að snúa öllum þeirra hag.
Látum ei sorg nje söknuð vínið blanda,
þó senn í vinahópinn komi skörð;
enn óskum heilla og heiðurs hvurjum landa,
sem heilsar aptur vorri fósturjörð.

Já, heill og heiður, Halldór okkar góður!
þú hjartans bestu óskum kvaddur sjert:
því þú ert vinur vorrar gömlu móður
og vilt ei sjá, að henni neitt sje gert.
Gakktu með karlmanns hug að straungu starfi,
studdur við dug og lagasverðið bjart,
og miðla þrátt af þinnar móður arfi
þeim, sem að glata sínum bróðurpart.

Og heill og heiður, hinir landar góðu!
sem hólmann gamla farið nú að sjá,
þar sem að vorar vöggur áður stóðu
og vinarorðið fyrst á túngu lá.
Hamíngjan veiti voru fósturláði,
svo verði mörgum deyfðarvana breytt,
allan þann styrk af ykkar beggja ráði,
sem alúð, fjör og kraptar geta veitt.

Það er svo tæpt, að trúa heimsins glaumi,
því táradöggvar falla stundum skjótt
og vinir berast burt á tímans straumi
og blómin fölna á einni hjelunótt;
því er oss best að forðast raup og reiði
og rjúfa hvurgi trygð nje vinarkoss,
enn ef við sjáum sólskinsblett í heiði,
að setjast allir þar og gleðja oss.

Látum því, vinir! vínið andann hressa,
og vonarstundu köllum þenna dag,
og gesti vora biðjum guð að blessa
og best að snúa öllum þeirra hag;
því meðan þrúgna gullnu tárin glóa
og guðaveigar lífga sálaryl,
þá er það víst, að bestu blómin gróa
í brjóstum, sem að geta fundið til.

---

## DRYKKJUVÍSUR.

Gamall mjöður gleður þjóð,
ginnir hann vatn af tönnum,
geðjast allvel gómaslóð
og gisnum kverkarönnum,
vekur líf og veitir móð
vesölustu mönnum,
inn þá borinn er á bjóð
á gullbúnum könnum.

Ólgar blóð og unun vjer
ágætustu faungum,
þá ölhreifur ýta hver
ympra ná'r á saungum;

klappar sjerhvur sverðagrjer
svörtum flösku vaungum,
og biður að meigi miðlast sjer
mjöður úr tappagaungum.

Mætri einga mey eg sá
mínu flösku tetri;
þá ægisheimi eygra eg frá,
að entum lífsins vetri,
skulu haug minn skatnar á
skrifa gullnu letri:
flöskustút hjelt seggur sá
svanna vörum betri.

## ÖLKVÆÐI.

Krúsarlögur
kveikir bögur
og kvæðin smá,
dæmisögur og glettu grá;
skúmin fögur fótaskjögur
færa margan á
inter pokúlá.

Öls til veiða
allir skeiða
og erindi fá;
hinir breiða borðið á,
mat upp reiða,
mælsku greiða,
magnast kætin há
inter pokúlá.

Kviknar hljómur,
heyrist rómur,
í hvurri krá,
vöknar gómur og varastrá,
blandast ómur,
bikarinn tómur,
bellur yfir í rá
inter pokúlá.

Enn hann lángar
út að gánga
og eykur þrá,
gjarn að stánga staupin frá;
hinir mánga,
á herðar bánga,
og hnefa í borðið slá
inter pokúlá.

Kalla skeilu,
ef hálfu og heilu
hafna má,
og lætur ei beylu bylja á;
í hugarins veilu
harðri deilu
hreifa nei og já
inter pokúlá.

Sumir drekka
utan ekka
alt, það fá,
vín á bekk sem vatnið blá;
nefna rekka
þessa þekka
þeir, sem horfa á,
inter pokúlá.

Fyrir því kífa,
hvetja hnífa,
höggva og slá,
kampa hrífa kinnum frá;
hárin drífa
hátt sem fífa,
hey eða þornað strá,
inter pokúlá.

Skörum róta,
bekki brjóta,
borð og slá,
könnur hrjóta
og fötin frá;
kraptar þrjóta,
enn kúlan ljóta
kiprar augað blá
inter pokúlá.

Hlýtur að klíngja
dalanna dýngja
á dúkinn blá,
hallast pýngja opið á;
könnum hríngja,
sumir sýngja:
sol sol fá sol fá
inter pokúlá.

Síðan halla
heila stalla
hægindið á,
stirðan pall eða stóra slá;
blunda valla,
blöndudalla
belgja tvo eða þrjá
inter pokúlá.

Hrörnar blíða,
enn hreifast kvíða
og hugarþrá,
millum hríða hugsun fá;
rauðum víða
velgjan stríða
veltir hvarma skjá
inter pokúlá.

Hóstakliður
ráma ryður
ræðukrá,
síga niður hljóðin há;
kreppast iður,
leggur og liður
leika þræði á
inter pokúlá.

Úr rotinu frekur
rakna tekur
raumurinn sá,
höfuðið rekur í hvurja krá;
um ullarbrekur
lútin lekur,
laglegur er hann þá
inter pokúlá.

Fyrir því gæti
í sess og sæti
sjer að slá
óhófskæti allri frá;
siðug læti
mjöðurinn mæti
mönnum verki hjá
inter pokúlá.

Fróðir sverfi
kvæða kerfi
og kýngi smá,
staupum hverfi stundum frá;
þó aðrir erfi,
skjaldan skerfi
skyggi nokkur á
inter pokúlá.

Hýrlegt gaman
haldi frama
höldum hjá,
enn stygð og ama stýri frá;
gjöri sjer taman
saunginn saman,
sumir hlýði á
inter pokúlá.

Kerunum veifi,
um könnur þreifi
og kenni á,
enn að hreifri hyggju krá
selskap dreifi.
Í lýða leyfi
ljóðunum vík eg frá
inter pokúlá.

---

## EVANSMESSA.

---

Æ, nú er gaman og gleði ný,
hell á,
því Evan stólinn vill stiga í,
hell á;
kórdjáknar hans skulu hraðir byrja,
með hárri gloría röddu kyrja.
Drekk út, skeink aptur,
tæm staupið, skeink aptur,
drekk út.

Hans stóll er klárum af krystalli,
    hell á,
og hans er gaman að guðspjalli,
    hell á:
hvurn sem hjer þyrstir, hann dropann drekki,
djarft komi til mín, hann kostar ekki.
Drekk út, skeink aptur,
tæm staupið, skeink aptur,
    drekk út.

Og exordíum var ærið gott,
    hell á,
hann synda talaði um trúan þvott
    hell á:
mín sól upp rennur eins yfir alla,
auðga, fátæka, samt börn og kalla.
Drekk út, skeink aptur,
tæm staupið, skeink aptur,
    drekk út.

Útleggíng þótti mjer einka best,
    hell á,
að henni gaum skulum gefa mest,
    hell á;
hann öllum kærleikann kendi hera,
og kvað hann boðorða fyllíng vera.

Drekk út, skeink aptur,
tæm staupið, skeink aptur,
drekk út.

Hann og eg katekísera sá,
hell á,
í hvurju atriði lærdómur lá,
hell á;
hann mælti: af vinur vín er dreigið,
eg veit, að þjer allir amen seigið.
Drekk út, skeink aptur,
tæm staupið, skeink aptur,
drekk út.

Enn djáknar sátu á breiðum bekk,
hell á,
útgaungusálmurinn glaðast gekk,
hell á;
þeir barkann smyrja og brent vín súpa,
á báða hnjákolla niður krjúpa.
Drekk út, skeink aptur,
tæm staupið, skeink aptur,
drekk út.

Og heiðrum Evan á hæsta trón,
hell á,
hann skapar gaman og skerpir sjón,
hell á;

í krapti látum oss andans alla
þann æðsta gleðinnar föður ákalla.
Drekk út, skeink aptur,
tæm staupið, skeink aptur,
drekk út.

Enn vjer, sem erum hans sóknarhjú,
hell á,
og höfum Evani heitið trú,
hell á,
gjörallir skulum vjer greitt út hríngja
og glösum skúmandi saman klíngja.
Drekk út, skeink aptur,
tæm staupið, skeink aptur,
drekk út.

## ÖLERINDI.

Nú er eg glaður á góðri stund,
sem á mjer sjer;
guði sje lof fyrir þennan fund,
og vel sje þeim, sem veitti mjer.

Vitjað hef eg á vina mót,
sem nú á sjer,
reynt af mörgum hýrleg hót,
vel sje þeim, sem veitti mjer.

Þó munngátsorð sjeu mörg og smá,
sem opt við ber,
til lasta ekki leggja má,
því veldur sá, sem veitti mjer.

Yndi er að sitja öls við pel
og gamna sjer,
enn fallegt er að fara vel,
þó ör sje sá, sem á skeinker.

Gott er að hafa góðan sið,
sem betur fer;
aldrei skartar óhófið,
og er sá sæll, sem gáir að sjer.

Gott er að hætta hvurjum leik,
þá hæst framm fer;
nú skal hafa sig á kreik,
vel sje þeim, sem veitti mjer.

## KVÆÐI FYRIR VELKOMANDA MINNI.

---

Hrygðin á burt, enn gleði og gaman,
sem guði og mönnum þekkast er,
komi til vor, er sitjum saman,
samhuga tali og drekki hver;
:|: þvílíkum smyrslum meiga menn
mýkja veraldar andstreymen. :|:

Hvort sem vjer etum eða drekkum,
eða hvað sem vjer höfumst að,
hófsemin skal með skamti þekkum
skilníngarvitum marka stað;
:|: óhófið beiskan einatt gat
allra sætastan verkað mat. :|:

Sorg úr ofdrykkju gjörir gleði,
gárúngaskap og því um líkt;
auk þess er sóminn víst í veði,
vjer skulum ekki gjöra slíkt;
:|: þiggjum framm borið vín og vist,
veri skynsamleg holdsins lyst. :|:

Velkomnir, gestir! verið inni,
velkomnir allir góðir menn,
þeir híngað komu í þessu sinni;
þess biður yður húsbóndenn,
:|: að velkomanda virðið mál,
velkomnir drekkið þessa skál. :|:

Velkominn þú, sem kemur híngað,
kærustu að sækja festarmey;
náttúran hefur þar um þíngað,
þetta hlutskipti bregst þjer ei;
:|: hrundin þín bíður hýr á kinn,
hún óskar þú sjert velkominn. :|:

Brátt líður nótt og birtist dagur,
bíð til þess rennur morgunsól;
búskapar er þá búinn hagur,
brúðkaups til boðnum efnuð jól;
:|: gef oss, drottinn! það gángi í vil,
gef þar blessaður lukku til. :|:

---

# SAUNGUR VIÐ BRÚÐGÁNG ÚR STOFU TIL SÆNGUR.

Tvenn er
tíðin daga og nátta,
tekst vjer
tónum saungva þátta;
sjest, að syfjar menn,
svo kvað brúðgumenn;
hann bað: best er að fara að hátta.

Eitt vess
enn skal raustin þylja,
enn þess
efni fæstir skilja,
því grun gefa frúr;
gulls hrun bekkjum úr,
hvurt mun meyja skarinn vilja?

Far vel,
fjöldi kvenna blíður!
far vel,
far, því tíminn líður;

svo vinst vígi, nær
vinna minst hyggjum vær;
lángt finst þeim, sem búinn bíður.

---

Vær gefum góða nótt,
gaungum svo lagðan veg;
vífum og virða drótt
værð gefist æskileg;
enn vær, sem lömb burt leiðumst,
leiðin er bæði greið og treg.

---

Góð yður gefist nótt,
gángið svo lagðan veg;
virðum með vífum fljótt
værð gefist æskileg;
yður í lukku leiddum
leidin sje greið og farsælleg.

---

## LJÚFUR OG TREGUR.

Ljúfur og tregur
leið þessa gánga vann;
það er vor vegur,
það seigir náttúran;
skaparinn hana skapti, þó
skyldum vær neita því?
Ávöxtum jarðar feingið frjó
förlar og vex á ný;
ef villumst eigi
út af skaparans veigi,
förum vel, oss færir hans
forsjón til þessa ranns.

## SAUNGUR FYRIR VELFARANDA MINNI.

Nú er tíð, vjer skulum skilja,
skemtunin var laung og góð;
geingið hefur víst að vilja
veisla þessi, meðan stóð;

eptir kemur umbreytíng,
endað seigjum gildisþíng;
hafið, vinir! heilir setið,
heilir staðið, drukkið, etið.

Mannsins líf í öllum efnum
umbreytíngum fult er af
æðri fyrir og undirgefnum,
er veraldar sigla um haf;
umbreytíng á illu er best,
af misjöfnu þrifin mest;
í umbreytíngum guð oss gefur
gleðilíf, sem þörfin krefur.

Enn vjer reynum umbreytíngar,
ekki er holt að sígleðjast;
þó vjer farið höfum híngað
hreifir fyrir utan last,
sýngjum, drekkum, eingir æ
umhugsandi hvur sinn bæ;
mál er komið heim að halda
og hófsveitendum þakkir gjalda.

Húsbóndinn og hjónin úngu
híngað boðnum þakkir tjá,
er með hegðan, huga og túngu
heiður sýndu og lætin dá;

óskum, fararheillin heim,
heilsa og nægtir fylgi þeim;
við það drekkum velfaranda,
veisluþrotin látum standa.

Brúðkaup vera birtum úti,
brúðhjónanna er endað nafn;
úngum hjónum landið lúti,
ljái þeim drottinn gæfusafn;
fari þau, sem liggur leið,
lífsins viti markað skeið,
forsjá guðs og fullan vilja,
foreldrana við að skilja.

---

## TRÚARJÁTNÍNG.

Þrent eg trúi og treysti á,
má því ei maður neinn
mig um guðleysi ásaka;
föður blíðum Bakkus hjá
biðst eg fyrir og þreyjandi kvaka;

hann ei hratt í burtu mjer,
þá eg kom, þreyttur af
þúngu syndanna verki;
kom þú, seigir hann, set þig hjer,
sje eg gjörla þín iðrunarmerki;
vertu hughraustur, son minn! senn,
synd þjer fyrirgef eg enn;
nær þig staupi, nú ef er
nokkuð ílt fyrir hjartanu þjer.

Mey ein, mjúk og gæskurík,
hreinlíf og hýr á kinn,
hún er önnur persóna;
vör um hennar hönd eg strýk,
henni allri með lotníng eg þjóna;
lokkar leika herðum á,
af þeim skín alt um kríng,
eins og ljómi af sunnu;
augun hrein og himinblá,
heitum elskunnar loga þau brunnu;
hennar faðmi fögrum í,
frjáls af sorg, eg glaður bý;
himnesk hjer er paradís,
hjer að lífa og deyja mjer kýs.

Andann pípu prísa jeg,
mínum í munni hann
meir enn hunáng er sætur;
þar af ljúfa lífgun dreg,
lækníng eru þær blessuðu rætur;
heiðblár hríngar reykur sig,
lopti í líka sjást
laungum fallegar rósir;
eingil ætla eg vera mig,
um þá gefa mig skýstólpar ljósir.
Treigi þegar truflar sinn,
tek eg Mógols lækníng inn;
gleðivarg eg bræli best,
bráð því er honum reykurinn pest.

---

## SÁRT ER MEYJAR AÐ MISSA.

Björt mey og hrein
mjer unni ein
á ísa köldu landi;
sárt ber eg mein
fyrir silkirein,
sviptur því trygðabandi.

Það eðla fljóð
gekk aðra slóð,
enn ætlað hafði eg leingi;
daprast því hljóð,
enn dvínar blóð,
dottið er fyrra geingi.

Stórt hrygðarkíf,
sem stáladríf,
sturlar mig hvurju sinni;
það eðla víf,
meðan endist líf,
ætíð er mjer í minni.

Dimt hrygðarjel
mitt þvíngar þel,
við þig að hlýt eg skilja;
þó fái eg hel,
þá farðu vel,
fagurleit hrínga þilja!

---

## MINNÍNG MISTRAR UNNUSTU.

Eg veit
eina baugalínu,
af henni tendrast vann
eldheit
ást í brjósti mínu,
allur svo jeg brann;
bjartleit
burtu hvarf úr rann.
Nú er ei hugurinn heima,
því hana ei öðlast kann.

Mey brá
mjer fyrir hvarma steina
margri fyr og síð;

ei sá
eg að heldur neina,
er svo þætti fríð,
fótsmá,
fagurhend og þýð.
Nú er ei hugurinn heima,
hún hvarf á samri tíð.

Sú var
seljan ofnis palla
siðug í máta rjett;
hennar
hegðan rjeð mjer falla,
hæversk var hún og sett;
af bar
yfirbragðið sljett.
Nú er ei hugurinn heima,
eg hef ei til hennar frjett.

Hún stóð
hýr í fögrum ranni,
hugði eg að henni best;
svipgóð
sú kann bæta manni
sorg og hugarins brest;

þýtt fljóð
þarflegt kunni flest.
Nú er ei hugurinn heima,
því hefur ei til hennar frjest.

Þýð, teit,
þakin dygða safni,
þrifnað læra rjeð;
blíðleit,
bestu kvenna jafni,
bauð hið besta geð;
eg veit,
er henni gæfan ljeð.
Nú er ei hugurinn heima,
því hana eg fæ ei sjeð.

Augnskær,
enn á hörundið bjarta
eins og mjöllin hrein,
mjög nær
mínu gekk hún hjarta,
hýran af henni skein;
sú fær
svalað geðinu ein.
Nú er ei hugurinn heima,
því hvarf mjer silkirein.

## SÖKNUÐUR.

Man eg þig, mey!
er hin mæra sól
hátt í heiði blikar;
man eg þig, er máni
að marar skauti
sígur silfurblár.

Heyri eg himinblæ
heiti þitt
anda ástarrómi;
fjallbuna þylur
hið fagra nafn
glöð í grænum rinda

Lít eg það mart,
er þjer líkjast vill
guðs í góðum heimi:
brosi dagroða;
blástjörnur augum,
liljur ljósri hendi.

Hví hafa örlög
okkar beggja
skeiði þannig skipt?

hví var mjer ei leyft
lífi mínu
öllu með þjer una?

Laungum mun eg,
fyr hin ljósa mynd
mjer úr minni líði,
á þá gōtu,
er þú gánga hlýtur,
sorgaraugum sjá.

Sólbjartar meyjar,
er eg síðan leit,
allar á þig minna;
því geing eg einn
og óstuddur
að þeim dimmu dyrum.

Styð eg mig að steini,
stirðnar túnga,
blaktir önd í brjósti;
hnígið er heimsljós,
himinstjörnur tindra,
eina þreyi eg þig.

## SIGRÚNARLJÓÐ.

Þú ángraðir mig áðan
með orðum þínum, Sigrún!
eg bað þig aptur mig hitta,
ef andaðist þú fyrri;
kvaðst þú ei trúa, að kalda
eg kyssa þig vildi,
nje hjúpaða hvítbleika
þig höndum um spenna.

Mín trúir þá ei meyja,
að muni eg sjer unna,
ef hún eigi trúir,
eg unni sjer fölri;
þínar það víst eru varir,
þó verði þær kaldar;
kinnar eg sje þær sömu,
þó sjái eg þær hvítar.

Kyssir ei á köldum
kalda mjöllu vetri
röðull, jafnt sem rauðar
rósir á sumrum?

Hvít er hreinust lilja,
hvít ertu sjálf sem mjöllin;
muntu þá miður skarta,
þó munnur og kinnar hvítni?

Þó heimsdvalar dreyrinn
deyi þjer af vörum,
blærinn þær blíðlega skreytir
blásala eilífðar.
Eingilhvítt formið hið fagra
finnast mun óskert kinna,
jafnfrítt og jafngott rauðu,
þó jarðblysin slokni.

Mærin mín hin skæra!
mig ei láttu einan,
mjer þó að farir þú fyrri
til friðsala himna;
kom þú, þegar á köldu
kólgur gánga hausti,
og um miðnætti máni
í mökkva sig hylur.

Mun þá fölur máni
af meðaumkvan bregða
blæju sinni, svo bjarta
eg brosa þig sjái.

Farðu þá, mín fagra!
fljótlega mjer að bólstri,
og hendi hvítri og mjúkri
mig hóglega snertu.

Svo, þegar bregð eg blundi
og breiði faðm þjer móti,
snjóköldum barmi snúðu
snarlega mjer að hjarta.
Fast kreistu brjóst mjer að brjósti,
og bíddu, uns máttu lausan
fá mig úr líkams fjötrum,
svo fylgja þjer meigi eg.

---

Glöð skulum bæði við brott síðan halda,
brennandi í faðmlögum, loptvegu kalda,
á gullreiðum norðljósa þjóta um þá;
væn svo þá smáblys í vindheimum glansa,
um vetrarbraut skulum í túnglsljósi dansa,
og snjóskýja bólstrunum blunda svo á.

---

## STÓÐUM TVAU Í TÚNI.

Stóðum tvau í túni,
tók lín um mik sínum
höndum, haukligt kvennde,
hárfögr ok grjet sáran;
títt flugu tár um tróðu
(til segir harmr vilja);
strauk með drifhvítum dúki
drós um hvarminn ljósa.

## TRÚÐI MÁLMÞÍNGS MEIÐIR.

Trúði málmþings meiðir,
marglóðar, þjer, tróða!
hugða ek sízt, at hefði
hringlestir þik festa;
eigi tjáðu eiðar
oss eða margir kossar.
Seint er kvenna geð kanna,
kona sleit við mik heitum.

## VESTANVINDURINN.

Þú, sem þegar vorar
þínum hlýja anda
hlíðar steini studdra
storðar ísa fjalla
hrímþaki sviptir hörðu
og hjúpi grænum sveipar,
hefurðu, vestanvindur!
viðurtal okkar munað?

Hefurðu of hafið spánska
heitan munað mjer færa,
kossinn kæru minnar
kinnrjóðrar, er þú hjest mjer?

Sótta eg koss þinnar kæru
kinnrjóðrar, er eg hjet þjer;
bar eg hann blár yfir unnir
hið bjarta lopt í gegnum;
þó máttu því ei reiðast,
að þjer hann fært getkat.

Því eg leit í lundi
lilju fagra í myrgin
bleiku höfði halla,
til helfarar snúna;

blaðfögur mig beiddi
að bjarga fjörvi sínu;
gleymdi eg gefnu heiti,
og gaf henni kossinn.

Færðist líf í liðna,
svo lypti upp höfði,
við ylsendíng ástar,
og upp á mig brosti;
þýð má þakka lífið
þinnar meyjar kossi.

## GOÐA ÞAÐ LÍKAST UNUN ER.

Goða það líkast unun er,
andspænis sitja móti þjer
og stjörnu sjá, þá birtu ber,
af brúna himni tindra;
hefi jeg þá í huga mjer
svo harla mart að seigja þjer,
enn orð frá vörum ekkert fer,
því eitthvað málið hindrar.

Mjúksár um limu logi mjer
læsir sig fast og dreifir sjer;
þúngt fyrir brjósti æ mjer er,
enn öndin blaktir á skari;
sem blossa nálgast flugan fer,
mig færa vil eg nærri þjer;
brátt hitinn vex, enn böl ei þver,
eg brenn fyr enn mig varir.

## SÁ GUMI LÍKUR GUÐUM ER.

Sá gumi líkur guðum er,
gullfögur augu'n þín er sjer,
og málið sætt af munni þjer
og mildan hlát'rinn nemur;
enn hjartað mitt á flótta fer,
felmstrað í brjósti lyptir sjer,
nær eg þig lít, og málið mjer
af munni valla kemur.

Um hörund leikur logi tær,
lömuð er í mjer túngan mær,

grand ekki sjá mín augun skær,
fyrir eyrum hljómur sýður;
um kroppinn svita köldum slær,
af kvíðahrolli skinnið rær,
fölna eg sem grösin, fjör og blær
úr feignm nösum líður.

## HÓRATSÍUS OG LYDÍA.

Hóratsíus:
Fyrrum, meðan eg þektist þjer,
og ekki annar neinn
ástsælli ýngissveinn
lagði þjer hönd um ljósan háls,
lífs míns blómgaðra bar,
enn buðlúngs Persa, var.
Lydía:
Meðan þjer önnur meir ei fjell,
og lut ei lægra par
Lydía Klón bar,
eg var mikil í munni þá,
orðs hafin æðra dóm,
enn Ilía sjálf í Róm.

Hóratsíus:

Nú hefur Klóa hjartað mitt,
sú veit að sýngja dátt,
sú kennir hörpuslátt;
hennar vegna eg ljeti líf,
að hún, mín önnur sál,
ei bergði dauðans skál.

Lydía:

Ástar mig jöfnum eldi fór
túrinskur kappakon,
Kalais Ornitsson;
tvisvar eg feigin ljeti líf,
ef þessum ýngispilt
örlögin feingi stilt.

Hóratsíus:

Hvað, ef hin forna hvyrfi ást
aptur, og saupasátt
samteingdi okkur dátt,
ef Klóa firrist fagurhærð
og luktar ljósri fyr
við Lydíu gína dyr?

Lydía:

Þó hann sje fegri, enn sólin sjálf,
og þú lausari í lund
ljettum korki við sund,
og ofstopameiri ólgusæ,

laungun og lyst mín er,
að lifa og deyja með þjer.

## STJÖRNUSKOÐARINN.

Blástjarnan þó skarti skær,
hún skal ei framar pína
sjón mína;
því aðrar fegri eru tvær,
er mjer tindra miklu nær
og undir Svöfu augnabrúnum skína.

## FREYJUKETTIRNIR.

Þú, sem kærleika kveikir magn,
kvöldstjörnu drottníng hýr!
þinn geislaríka gullinvagn,
þar glansandi þú býr,
:|: fegurstu draga dýr, :|:
þeir sættmalandi, mjallahvítu kettir.

Ei draga þeir þó ætíð vagn
hjá ástar hlíðri dís;
af þeim sjer meira gaman og gagn
hin gullinhærða kýs,
:|: þeir veiða menn, ei mýs, :|:
og optast sendir út hún þá til veiða.

Heimskatta temja hnykki sjer
himindýr veiðum á;
launsátra þeirra listin er
þó lángtum æðri að sjá,
:|: þeir meyjum hýrast hjá :|:
og undir þeirra augnasteinum liggja.

Þó frá launsátri laungum því
þeir læsi margan hal,
sig þessum veiðum sjálfir í
þeir sýna katta val,
:|: hlíðir með mjúkast mal :|:
þeir særa ei neinn, er sjálfur vill það eigi.

Því mann þeir stökkva eingan á,
sem ei þeim horfir mót,
í augun þjóta augum frá
og annað snerta ei hót;
:|: líttu ekki í augu á snót, :|:
því kettir Freyju kúra þar undir steinum.

Þó færri geti halir um heim
til hróss það talið sjer,
að komist hafi frá köttum þeim
klaklaust og ósárer,
:|: það mínkun ætíð er, :|:
úr manni að gjörast músin Freyjukatta.

## KYSTU MIG, HIN MJÚKA MÆR!

Kystu mig, hin mjúka mær!
þú ert sjúk;
kystu mig, hin mjúka mær!
því þú deyr;
glaður drekk eg dauða
:|: úr rós :|:
á vörum þín,
því skálin er svo skær.

## FLÝ ÞÚ MIG EKKI, FAGRA MEY!

Flý þú mig ekki, fagra mey!
þó mjer af hærum herðar viður
hrynji fannhvítir lokkar niður;
fyrirlít mína elsku ei,
meðan þjer æsku endist blóm,
því ofurvel á milli rósa
mjallhvítar sjer, að mínum dóm,
í maíkrönsum liljur hrósa.

## KOSSAVÍSUR.

Ljúfi! gef mjer lítinn koss,
lítinn koss af munni þínum;
vel eg mjer hið vænsta hnoss,
vinur! gef mjer lítinn koss;
ber eg handa báðum oss
blíða gjöf á vörum mínum.
Ljufi! gef mjer lítinn koss,
lítinn koss af munni þínum.

Leikur kossa lipur er,
lætur þeim, er á kann halda;
listin sú ei leiðist mjer,
leikur kossa fimur er;
einatt reyni eg það hjá þjer,
þiggja, taka, endurgjalda.
Leikur kossa lipur er,
lætur þeim, er á kann halda.

Vinur! gef mjer enn þá einn
ástarkoss af ríkum vörum,
einn fyrir hundrað, úngur sveinn!
einn fyrir þúsund, rjettan einn,
einn enn, þú ert ofur seinn,
eg er betur greið í svörum.
Vinur! gef mjer enn þá einn
ástarkoss af ríkum vörum.

Rjett sem örskot tæpur telst
tíminn mjer við kossa þína;
tíminn, sem eg treindi helst,
tæplega meir enn örkot dvelst;
sárt er að skilja, gráti gelst
gleðin, þiggðu kossa mína.
Rjett sem örskot tæpur telst
tíminn mjer við kossa þína.

Kossi föstum kveð eg þig,
kyssi heitt mitt eptirlæti;
fæ mjer nesti framm á stig,
fyrst jeg verð að kveðja þig.
Vertu sæll, og mundu mig,
minn í allri hrygð og kæti.
Kossi föstum kveð eg þig,
kyssi heitt mitt eptirlæti.

---

## PÍKUSKRÆKUR.

---

Múnkurinn:
Ó, mín
hjartans ástar baugabrú!
til þín,
því að eingin er sem þú
hugtrú,
hefi eg gefið, heyrðu, mig;
:|: viltú
afmá þann, sem elskar þig? :|:

Nunnan:

Þó eg nei
kveði við ókjassmálig,
vil eg ei
afmá þann, sem elskar mig.

Múnkurinn:

Samt þín mök
hrífa líf á heljarstig.

Nunnan:

:|: Mín er sök
ein ei nein, þótt ærir þig. :|:

Múnkurinn:

Hana þá,
skemstu vegu skal fara;
eg vil sjá,
hvort það er þín alvara.

Nunnan:

Skil eg þig,
að þú níðist á mjer frekt,
:|: að fella mig,
það er æði kallmannlegt. :|:
Stattu við.

M ú n k u r i n n :
Má eg eigi, mjer er ant.

N u n n a n :
Dálítið.

M ú n k u r i n n :
Hitt skal reyna, hvað þú kant;
eg vil sjá,
hvort þjer verður við mig bilt.

N u n n a n :
:|: Hana þá,
gjörðu við mig, hvað þú vilt. :|:
. . . . . . . . . .

## UM HANA SYSTUR MÍNA.

Sáu þið hana systur mína
sitja lömb og spinna ull?
Fyrrum átti jeg falleg gull,
nú er jeg búinn að brjóta og týna.

Einatt hefur hún sagt mjer sögu;
svo er hún ekki heldur nísk,
hún hefur gefið mjer hörpudisk
fyrir að yrkja um sig bögu.

Hún er glöð á góðum deigi
(glóbjart liðast hár um kinn)
og hleypur, þegar hreppstjórinn
finnur hana á förnum veigi.

## SLÁTTUVÍSUR.

---

Fellur vel á velli
verkið kalli sterkum;
sýngur enn á eingi
eggjuð spík, og rýkur
grasið grænt á mosa,
grundin þýtur undir;
blómin bíða dóminn,
bítur ljár í skára.

Gimbill gúla þembir,
gleður sig og kveður:
veit jeg, þegar vetur
vakir, inn af klaka
hnífill heim úr drífu
harður kemst á garða;
góðir verða gróðar
gefnir sauðarefni.

Glymur ljárinn, gaman!
grundin þýtur undir;
hreifir sig í hófi
hrífan ljett mjer eftir;

hept er hönd á skapti,
höndin ljósrar drósar.
Eltu, á framm haltu,
ekki nær mjer, kæra!

Arfi lýtur orfi,
allar rósir falla;
stutta lífið styttir
sterkur kall í verki;
hept er hönd á skapti,
hrífan ljett mjer ettir;
glymur ljárinn, gaman!
grundin þýtur undir.

## FORMANNAVÍSUR.

### I. Frammróður.

Hafaldan háa!
hvað viltu mjer?
berðu bátinn smáa
á brjósti þjer,
meðan út á máa
miðið eg fer.

Svalt er enn á seltu,
sjómenn vanir róa,
köld er undiralda,
árum skellur bára;
dylur dimmu jeli
dagsbrún jökulkrúna;
svæfill sinnir ljúfum
svanna heima í ranni.

Föður minn á miði
móðir syrgði góðan;
köld er undiralda
árum skellur bára;
bræður mína báða
bæjum sneyddi ægir;
svalt er enn á seltu,
sjómenn vanir róa.

Einatt ölduljóni
á óalegan sjóinn
hrundu hart um sanda
hraustir menn úr nausti;
heill kom heim að öllu
halur, og færði valinn
hlut í háum skuti
hjúa til og búa.

Björgum enn til bjargar
báti, verum kátir;
svæfill sinnir ljúfum
svanna heima í ranni.
Nótt er enn, þótt ótta
af sje liðin hafi;
dylur dimmu jeli
dagsbrún jökulkrúna.

Hræðumst lítt, þótt leiði
löður árarblöðum
eld í spor, og alda
úfin froðu kúfist;
rjerum fast úr fjöru,
framm gekk tamin snekkja
vel á vogi svölum,
við erum nú á miði.

II. Seta.

Mardöll á miði
í myrkbláum sal!
seiddu nú að sviði
sækinda val;
láttu fara í friði
feingsælan hal.

Stjóri sökk að sjávargrunnum,
situr yfir hvikum unnum
veiðimaður á valtri skeið;
förum aungul beittan beita,
báru knýja og fiska leita
þaungli nær á þorskaleið.

Bítur undir borði gráu;
blótaðu ekki seiði smáu,
sleptu því heldur, maður minn!
Jeg er að draga þorsk úr þara,
það varð honum feigðarsnara,
að hann gleypti aungulinn.

Hjálpi drottinn höndum öllum;
hækkar dagur á austurfjöllum,
senn á báru sólin skín.
Dragðu, sveinn! úr djúpi köldu
dagverð þinn, sem býr í öldu;
hlutartalan hækki þín.

Hvað mun hugsa þessi þorri,
þilju sem að undir vorri
háskatólin hremma fer?
þótt þeir sjái, sjeu dreignir
synir þeirra, beitu feignir
gamlir þorskar gleyma sjer.

Jeg hef valla við að draga;
verði það sona alla daga,
meðan nokkur maður rær.
Nú er hlaðinn bátur að borði,
blessaður nnuinn nægtaforði;
þökk og heiður sje þjer, sær!

## III. Uppsiglíng.

Útrænan blíða,
sem opt kystir mig!
láttu nú líða
yfir leipturstig
fleyið mitt fríða,
svo faðmi jeg þig.

Reisum trje, svo renni að ósi
rángajór, því lángar stórum
nú að heilsa bæ og búi
báruþegn, er stýri gegnir;
breiðum voð, svo gráan græði
getum kvatt, því nóg er setið.

Sælla vart er eitt að öllu,
enn að sigla heim til kvenna.

Bíður kona heima á hlaði,
hrædd og feigin seglið eygir,
sjer að hleypur, hyggur steypist
hrannaljón á djúpu lóni;
vonin dregur, óttinn agar,
undan lítur þá og flýtir
sjer að kyssa sinn, að blessa,
son og minn á rjóðar kinnar.

Herðið, dreingir! hratt á streingjum,
horfði við, á goluborða
nú að leystust teingslin traustu,
teygir blakkur sævar makka;
geysa tekur gángi fúsum
gnoðin mín um hvíta boða.
Sælla vart er eitt að öllu,
enn að sigla heim til kvenna.

Lægjum voðir nú í næði,
nóg er siglt, sem fyr var róið;
knararstefni vel að vörum
víkjum undan sævar ríki.
Þökkum drottni, þeim er hlotnast
það oss ljet, að allir getum

hraustir borið heim að nausti
hlutarval úr fermdum skuti.

## ÞAT MÆLTI MÍN MÓÐER.

Þat mælti mín móðer,
at mjer skylldi kaupa
fley ok fagrar árar,
fara á hring með víkingum;
standa upp í stafni,
stýra dýrum knerri;
hallda svá til hafnar,
höggva mann ok annan.

## REIÐVÍSUR.

Sveinar íslenskir! sitjum hjer,
samt á framm þjótum teitir vjer
sveittum á jórum
stikandi stórum
storð, er upp ól þá og oss;

fjöllin blá af fögrum tind
færa burt ský, og hýra mynd
hnarreist oss sýna,
og heilsun vinum
hermir í gljúfri hinn dynjandi foss.

Brosir oss mót hin græna grund,
glymur í vötnum sama mund;
er sem þau vilji
oss um þylja
aldnar sögur köppum frá.
Sjáið þjer, lopt og hauðrið hlær,
heimkynnum vorum færumst nær.
Gott er að ríða
um foldu fríða
fákum vökrum á og á.

Ísland, vort fagra föðurland!
um fjöll þín og dali, strönd og sand
blessunin frævist,
um aldur og æfi
auðna vaxi barna þín.
Hvur þinn sonur, hvar hann fer,
hafi þig æ í minni sjer;
óskar hann þein
að bera seinast
í barmi þjer, þá æfin dvín.

## REIÐVÍSUR.

Svitnar reiðarsvínið mitt,
svo munu vera fleiri,
        eg heyri;
vakur jór fær veiginn stytt,
vel borgar hann eldið sitt,
        ei kostar keyri.

Þó skírist vegur, enn blotni braut,
bragnar meiga ríða
        án kvíða;
hvur sem drottins náðar naut,
náir að sigra hvurja þraut
        og blessun bíða.

Að hýrga sig á horna sjó,
hentugt er, ef meingi
        það feingi;
ríðum glatt, enn gætum þó,
gefa skal klárnum nokkra ró,
        og stilla á streingi.

Jór þó hafi fiman fót,
fínt er að gæta að veigi,
        svo eigi

keldur, þýfi, klúngur, grjót
kunni oss að flækja í nót,
svo mæðast meigi.

---

## ÞYT LEIT EG FÓTHVATAN FETA.

Þyt leit eg fóthvatan feta;
fold hark, enn mold sparkið, þoldi,
grjót fauk, því gat vakur skotið,
gekk tíðum þrekkhríð á rekka,
rauk straumur, ryk nam við himin,
rjett fór og nett jór á spretti,
ei sefast ákafalífið,
öll dundu fjöll, stundi völlur.

---

## VAKRI SKJÓNI.

Hjer er fækkað hófaljóni,
heiminn kvaddi Vakri Skjóni,
einginn honum frárri fanst;

bæði mjer að gamni og gagni
góðum ók eg beislavagni,
    til á meðan tíminn vanst.

Á undan var eg eins og fluga,
opt mjer dettur það í huga,
    af öðrum nú þá eptir verð;
hjeðan af mun eg hánni ríða,
hún skal mínar fætur prýða,
    einnig þeirra flýta ferð.

Lukkan ef mig lætur hljóta
líkan honum fararskjóta,
    sem mig ber um torg tún,
Vakri Skjóni hann skal heita;
honum mun eg nafnið veita,
    þó að meri það sje brún.

## HESTAKAUPAVÍSUR.

Þá grannar vorir hittast hjer,
hvur þá öðrum bjóða fer
hesta kaup og hrossa;
sumir hafa soddan art,
þeir selja ekki á meðan spart
kjassamál og kossa.

Sælir af hjarta. Heill vertú,
hvað hefurðu í frjettum nú?
Ekkert öðru nýrra.
Líttu upp á hægri hlið,
hjer máttu nú bjóða við
drösulinn þinn hinn dýrra.

Er hann gamall? ansar hinn.
Átta vetra, góðurinn minn!
og lastalaus að öllu;
hann að stilla, er hörkutak,
hjerna er svipan, kondu á bak,
og veldu þjer sljetta völlu.

Horfðu á meðan, hvurnig fer;
hvurgi geingur hann fyrir mjer,
utan í taglið taki.
Hægra nokknð, hvað er um?
hann er tregur frá köplunum,
flýtt' þjer og farðu af baki.

Þú átt að lokka hann, ljúfurinn minn!
og leiða út yfir hlaðgarðinn,
talaðu ekki um að tarna;
sjáðu núna, svo fór skár,
slá þú hann ekki, það er einn ár,
svo, fallega fór hann þarna.

Enn þegar reiðin úti er,
aptur heim hann flýtir sjer;
hafið þjer heiður, bróðir!
Lyndir nokkuð þessi þjer,
þá er hann líka falur af mjer,
því við erum vinir góðir.

Vel fer yður, elskan mín!
áður þekti eg góðvild þín,
býð eg þjer minn besta;
hann er úngur, feitur, frár,
frækinn, snotur, gildur, hár
og hestval haldið mesta.

Hann er ekki heima hjer,
hann helfist nokkuð fyrir mjer
af nagla á næsta deigi;
þeir, sem síðar sáu hann,
sögðu hann orðinn afhaltan,
hann verður á þínum veigi.

Þetta máttu, þessi er þinn,
þar sem að stendur, taktu hinn,
hann skal heimild bæta.
Kvíði eg fyrir, að beygja bak
og bera leingi söðulhrak,
ef verð eg mig að væta.

Þó verður það að vera svo.
Hann víkur á stað, og kossa tvo
leggur í við hann lánga;
skamt frá garðinum fákinn fann
fárlegana vammhaltan,
sem gjörði hann eptir gánga.

Þegar hann haltan hestinn sjer,
í hljóði við sig mæla fer:
Óðinn eigi hann núna;
hvorugur okkar hefur vel;
hinn eg aldrei eptir tel,
lastaklárinn lúna.

Hann var latur, laungraður,
lúrlegur og ramstaður,
meiddur á miðju baki;
þessi er haltur, bryggbrotinn;
hvað gildir? í annað sinn
eg kemst úr hestahraki.

Brýnir hann síðan husann sinn,
og borar í skakka hófinn inn
heldur stóra holu;
svartan leggur hann söðulinn á,
og sækir á framm, mest sem má,
í nærri norðangolu.

Hittir hann bæ og brátt þar her.
Bóndinn sá, sem fyrir er,
arkar út til gátta.
Sigurgefinn, seigir hinn.
Sæll vertu, og velkominn
í nótt hjá oss að nátta.

Yður þakka eg, elskuvin!
á framm leingra nauðsynin
rekur mig að ríða;
þó það banni haginn hinn,
jeg blóðjárnaði klárinn minn;
hjer er holan síðan.

Yður vil eg hann fyrstum fá,
fyrir það honum hlektist á,
því hjer eru hestar feitir;
hjer finst nú ekki annar eins
að afli, kostum, eða til neins,
enn þó að leingra leiti.

Horfðu á, hvurninn hann er fær,
hryggurinn allur á honum rær,
tarna er mikill makki;
eg seigi þjer ekki af honum meir,
yfir um klúngur, fen og leir
rennur hann eins og rakki.

Ekki líst mjer á hann par,
hann er svo skakkur í fæturnar,
þó má það so vera;
bleikalóttan býð eg þjer við,
bæti eg so þinn rannaklið;
sá mun bóndann bera.

Þá var liðið lángt á nótt;
hann leggur á og kveður skjótt,
og hýðir burt úr hlaði.
Svo snoturt þarna fór hann fyst,
á fáknum þykir honum list
alt út yfir traðir.

Enn þegar vesnar vegurinn,
verða snöggleg umskiptin,
hann hnýs um hvurja þúfu.
Stattu aldrei, armur klár!
ansaði hinn, og varð við fár,
og grýtti honum svo á grúfu.

Sjeð hef eg aldrei soddan mann,
að seldi hann mjęr náttblindan
böðulsklárinn bleika;
þetta skylt fyrir skæðin er,
hann skal þá aldrei trúa mjer,
ef eg skal ei á hann leika.

## SKIPAFREGN.

Vorið lángt
verður opt dónunum,
heldur strángt
harðnar í sveitunum,
siglíngunni seinkar mjög,
sígur að byrgðum,
gleðskapur um láð og lög
liggur í kyrðum;

brennivín
burt er af glösum,
eykur þín
ekkert í nösum,
tóbaksskrín
tóm eru í vösum;
saman koma þeir hjer og þar,
:|: kallast á og kveðjast svo:
kondu blessaður. :|:

Ansar hinn:
á eg að heilsa þjer;
góðurinn minn!
gefðu í nefið mjer;
í hálfan mánuð hef eg ei sjeð
hót af tóbaki,
brúkað hef eg moðið með
mygluðu hraki.
Á, er það?
ertu si sona?
Hinn þá kvað:
hvurs viltu vona?
tóbaksblað
bauð mjer ein kona,
enn eg brúka ei upp í mig,
:|: því er so varið og það er nú so,
þjer satt eg greini. :|:

Ekki hefði eg
átt við að neita því,
bágt er mjeg
blaðið fá munninn í;
mykjuskánir, mótorfið
og mart annað fleira,
brúkað hef eg og blóðbergið,
bættu við meira.
Svei mjer þá,
ef satt er ei þetta;
mæða og þrá
mörg vill á detta,
aungvir ná
til útlenskra frjetta;
hart er nú um seytilinn, hvað seigir þú?
:|: Það má kalla, Þórður minn!
þeigjum við núna. :|:

Dýrt er nú,
drottinn minn! brennivín;
ætlar þú,
eg mætti leita þín,
ef mjer lægi á einni skál?
Ansar hinn: svei svei,
þó það kosti þína sál
og þig sjálfan, nei nei.

Hættum við,
hvað ríður þarna?
höfum bið,
hvur er sá arna?
líttu á hlið,
ljótt er að tarna,
sýnist mjer hann svínkaður;
:|: við skulum spyrja hann spjörunum úr,
spjátrúnginn þennan. :|:

Sælir nú.
Sæll vertu, Bjarni minn!
hvað seigir þú?
hvort eru skip komin?
Heyrt hef eg, að Hólmsskipið,
og Höfðarar líka,
lægt hafi segl við legumið
með lestina ríka.
Skil eg það;
skal friður núna?
Mælt er, að
mögl sje um trúna;
seigja þeir stað
sokkinn Lundúna.
Hvaða látum, hvort er það svo?
:|: allir hafa þeir út komist
í haust? Og jæja. :|:

Lifnar hold,
lánlega mart til ber;
hýrnar mold,
hreykja sjer dónarner;
skipakoman gleður geð,
gleyma þeir hrygðum;
hesta sækja í haglendeð
og heim reka að bygðum.
Ætlið þjer
að reisa, bróðir?
Í sinni er mjer,
að sjá danskar þjóðir;
klárarnir,
kvikir, ómóðir
eru, enn tefjum ekki nú;
:|: við skulum allir halda hóp,
hvað sem á dynur. :|:

Alt er til,
á leggja reiðtýgin;
flest í vil
fer þá um búnínginn;
prjónlesið í poka'endann
pakka þeir niður;
kemur á móti kútholan,
sem kannist þjer viður;

sneypast inn
snöggvast, að jeta;
stígreipin
stirðir í feta,
ekki um sinn
upp staulast geta,
hálfa eykt þeir hánga þar;
:|. bæjarvegg fyrir bakþúfu
þeir brúka um síðir. :|:

Þá á leið
þenja þeir klárana,
hleypa á skeið
um holtin og flóana.
Mælir ei um ferðaflas,
fyr enn þeir líta
kaupstaðarfólk með versluvas
varníngi býta.
Af baki þá
brölta með æði
(hestar fá
hryglu af mæði);
kaupmenn sjá
kreika um svæði.
Er hann það sjálfur, seigðu mjer?
:|: Áttu við hann, sem hjerna er
með hattinn, gráklæddur? :|:

Sýnist mjer
svipurinn þesslegur,
heilsum vjer,
hann áður inn geingur.
Bugta sig og beygja kvið,
með ber höfuð gánga,
strjúka niður stuttvaxið
strýið í vánga.
Herra minn!
hvur þeirra mælir
við kaupmanninn,
komið þjer sælir.
Ansar hinn,
og andlitið skælir:
gúð velsigne jer, góðe veu!
:|: alt í búðen í skal fo,
vað eðer behager. :|:

Svo með hrað
sækja þeir varnínginn;
grenslast að,
hvort gisinn sje kúturinn.
Hjerna er nú, herra minn!
hafurtask okkar,
lítið púlsband, lambskinnin
og ljósgráir sokkar.

Vað er det,
í vil begere?
Tóbakið;
til máske beri,
þjer fáið með
fjórðúng 'af smjeri,
ef það er ei orðið kramt,
:|: af því eg reiddi það undir mjer
innan í sýju. :|:

Tóbakspund
taka þeir veigið út
(á samri stund
setja á borðið kút);
bitanum einum bergja þeir á,
og bryðja upp alin.
Herra minn góður! hana nú þá
hálfan ríksdalinn;
bað eg um
brennivín yður.
Af áttúngnum
alt hripar niður;
í þrautunum
það er plagsiður,
náúngann að núa í krít.
:|: Kaupmanninum þakka þá
og þýðlega mæla: :|:

Hvað eg er,
herra minn! skyldugur,
greinið mjer,
göfugi kaupmaður!
Sex og ein halv fisk haver í her
hús mæ tilgóðe.
Skilníngurinn skorta fer;
þeir skrafa í hljóðe:
hvað seigir hann?
hálfa vætt fiska?
(einginn kann
á það að giska,
hvað brögðróttan
brestur opt viska);
ekki eru þeir utan tólf;
:|: þrenna sokka þjer skuluð fá,
og þá stendur heima. :|:

Á vasaglas
vildi eg fá nú með.
Kviknar mas;
kaupmaður ansa rjeð:
dú bör have ein brennevínspott,
so blíve ví klare.
Hinn það meinar háð og spott,
og hikar í svare;

ílátið
að honum rjettir,
hýrnar við
og hvarmana brettir,
hopar á snið,
í hryggnum sig fettir,
flaskan meðan fylt er hans;
:|: kveðja síðan kaupmanninn
með kossi og blíðlátum. :|:

Hrósa skal
herramannsgjöfunum;
hef eg tal
haft ei fyr af honum;
guðsmaðurinn gaf mjer þó
gildan vínpottinn;
hvar hann fer um saltan sjó,
signi hann drottinn.
Steðja á bak,
strax burtu ríða,
af keyrum blak
klárarnir líða,
heyrist brak
um heimsbygðir víða;
á hliðar ýmsar hallast þeir;
:|: vínið heldur verður megnt,
vekur óróa. :|:

Fljúgast á,
fángbrögðin reyna þeir;
dreingir þá
drekka ei saman meir;
vitið fer á víð og dreif,
vart er þeim gaman,
glíman verður skökk og skeif,
þeir skemmast í framan;
leingi dags
láta það fara,
höggin strax
hvorugir spara,
vantar sax
til vonar og vara,
ef þeir hætta ekki fyr;
:|: hvurs kyns brögð og hrekki með
þeir hafa í frammi. :|:

Síðan heim
svíndrukknir koma þá;
fagnar þeim
fólkið, sem best það má;
eru síðan afklæddir
og upp í rúm lagðir,
úr vatni og hlandi vaskaðir,
og vitlausir sagðir;

tilfeinginn
týndur er auður;
útleikinn
einn ver enn dauður;
enn kúturinn
kominn er snauður,
tómur að mestu og tappalaus;
:|: rakna að morni rotinu úr
í ráðleysi og svíma. :|:

Dvínar prakt,
drukkinn er náúnginn;
rjenar makt,
reisan er afstaðin;
kæti er burt, enn komið í stans
kaupstaðarvasið,
iðran dottin á til sanns
fyrir ólukkuflasið.
Dónarnir
dvelja í náðum
ferðlúnir;
fákunum þjáðum
hjúkrað er
með hagnaði og dáðum.
Fátt er betra enn fara vel;
:|: vjer höfum ei síðan heyrt um það,
hvurnig þeim vegnar. :|:

Braginn á
bindum vjer endahnút;
styttist skrá,
staupið er sopið út;
einginn reingja meiníng mun
til málefnisbóta
maður, eða gjöra á grun
um grandsemi ljóta.
Valete,
virðið til góða
skáldmæle
skemtunarljóða;
ekkert spje
ætlum að bjóða,
heldur gaman græskulaust.
Við skulum skjala, að skuli mál
Skipafregn heita.

## APTURHVARFIÐ.

Tveir voru að hvölfa
elfum ölva
í iðra sá,
ekki fölvar yfir þá,
spila, bölva,
brjóta og mölva
bistir alt, hvað sjá
inter pokúlá.

Millum slaga
að munni draga
mjaðar lá,
berjast, klaga, borðið slá;
breytist saga,
böl aflaga
brátt nam kæti þá
inter pokúlá.

Af dró skugga,
út um glugga
eldíng sjá,
þar við stugg að þrjótum brá;

dunaði skrugga,
um sig ugga
illir tóku þá
inter pokúlá.

Spilurum sveija
og frá sjer fleygja,
fyltir þrá,
meintu deyja mundu þá;
djúpt sig hneigja,
synd afseigja,
sálma gripu skrá
inter pokúlá.

Æ hvervetna
syndum setna
sig þeir tjá,
þar til metna minna enn strá;
fælan glettna,
fyr umgetna,
fjell nú strax í dá
inter pokúlá.

Út að nýju
úr ángurs stýju
ólmir gá,
bókarrýju bekknum ljá;

einga klígju,
enn nú hlýju,
öls af tári fá
inter pokúlá.

Brjótar kanna
spilin spanna
og spyrjast á:
hvur það vann, er hurfum frá?
Jeg, kvað annar;
hinn um hrannar
heiptar eysan blá
inter pokúlá.

Hans það ljúga
hvopt óhljúga
hermdi sá;
síðan fljúgast seggir á.
Eins út kúgar
ángurs þrúga
iðrun mörgum hjá
inter pokúlá.

## BORÐSÁLMUR.

—

F o r s a u n g v a r i n n:
Það er svo mart, ef að er gáð,
sem um er þörf að ræða;
jeg held það væri heilla ráð,
að hætta nú að snæða.

F ó l k i ð:
Heyri þið snáða,
hvað er nú til ráða?
það er best að hlíða
og hlýða.

F o r s a u n g v a r i n n:
Á einum stað býr þrifin þjóð
með þveigið hár og skjanna,
við húsbændurna holl og góð,
sem hundrað dæmi sanna.

F ó l k i ð:
Hvað er að tarna?
hvað sagðirðu þarna?
mættum við fá meira
að heyra?

Forsaungvarinn:

Mjer hefur verið sagt í svip,
að sig hún taki að ygla,
og ætli nú að eignast skip,
þó einginn kunni að sigla.

Fólkið:

Við litlu má gera,
látum sona vera;
þeir ýtast þá með árum
á bárum.

Forsaungvarinn:

Nú eru líka níu menn,
sem nóttina eiga að stytta,
þó valla nokkur viti enn,
hve vænlegt ráð þeir hitta.

Fólkið:

Seigðu ekki leingur,
seinna veit, hvað geingur;
mættum við fá meira
að heyra?

Forsaungvarinn:

Á einum stað býr einnig fólk,
sem alt af vantar brýni;
þeir lifa þar á mysu og mjólk,
enn mest á brennivíni.

F ó l k i ð:

Æ, hvaða skrambi,
atla' þeir standi á þambi?
mættum við fá meira
að heyra?

F o r s a u n g v a r i n n:

Þar hefur verið sofið sætt,
enn súngið nokkru miður,
og ullin fremur illa tætt,
enn allra besta fiður.

F ó l k i ð:

Atla' það sje undur,
þótt á þá renni blundur?
mættum við fá meira
að heyra?

F o r s a u n g v a r i n n:

Þar eru blessuð börnin frönsk
með borðalagða húfu,
og yfirvöldin illa dönsk
á annari hvurri þúfu.

F ó l k i ð:

Hættu nú, herra!
hjer mun koma verra,
sem þjer er betra að þeigja um,
enn seigja um.

## FORSAUNGVARINN.

Eg get ei leingur orða bundist
um þig, Dögunargerðis-Jón!
hið sama hefur fleirum fundist,
er feingu þinn að heyra tón,
hvurn söfnuðinum sóma þú
á sunnudaginn veittir nú.

Visdómsherrarnir hjerna nýju
höfðu andlegan myndað brag
meður ókendri melódíu,
maður eingin það kunni lag:
því forsaungvarinn fauk á dyr,
flestir þá urðu ráðlausir.

Þá stóðstu upp úr þínu sæti,
það var mjer hjartkær gleðisjón;
allir fyltust af ofurkæti,
allir hvískruðu: sjáðu hann Jón;
þá kom veður, sem væri úr belg,
úr víðum þínum barkasvelg.

Þín raddar öflug skelfði skrugga
skatna alla, sem hlýddu á;
ruddist upp úr þjer reykjarmugga,
rjett eins og brynni hveragjá;
upp þrútna gjörði andlitið,
allur búkurinn drundi við.

Bifuðust guðshúss hjálkar allir,
huldi við hvelfing, nær eð þíns
raddarholflæmis hljómar snjallir
hruðu sjer rás til eyra míns,
sem þekjur gegnum þreingdu opt,
þrábarið tiðum knúðu lopt.

Strítt sem nær milli stæltra hjarga
straumar niðandi velta framm,
og fallnir gegnum fossa marga
finna loks hvíld við sævardamm,
og sinn drynjandi ólguklið
um síðir hepta græðir við,

Þannig gekk vess hvurt út til enda,
öflgum framm knúð af barkastreing;
hvurri sál gjörði hrygð frá venda,
hreptu þær nýjan unaðsfeing
af þeim raddgóða hægðarhreim,
sem heyrðist að fylgja saungnum þeim.

Hljómur þinn fagri hjelst við leingi,
hátíðleg var sú raddargrein;
af mjer því get jeg ekki feingið,
á þig að leggja lýti nein,
þó af saunghæða þýngslunum
þú ræmdist lítt í endanum.

Sit eg í guðshúsi aldrei inni,
eða heyri svo raulað vess,
að saungur þinn sje ei mjer í minni;
mun eg því ávalt geta þess,
að um hnött jarðar útþaðan
aungvan heyrða eg þvílíkan.

Saungvara, þá eg þekki, alla
þinni sigrarðu raddarment,
sem einglum gefur eptir valla;
ó, Jón! hefði þjer verið kent;
enn námi betri er náttúran,
nú fyrst reyni eg sannleik þann.

Líkams hefurðu þægar þeigið
þínum skapara listir af,
og á þeim heldur ekki leigið,
eins og best raunin vitni gaf
þú átt rödd mikla, það er satt,
þú máttir gjalda af henni skatt.

Má þjer Túngusveit mikið þakka,
monsjer Dögunargerðis-Jón!
þurfamenn nú ei framar flakka,
fátæktar er þeim batnað tjón;
rjetta þeir við af ríksdalnum,
sem rjeðstu gjalda af hljóðunum.

Hrópar fátækra helgur skari:
hamíngjan gefi blíð og klár,
að raustu Jóns ei aptur fari,
af henni veslum blessan stár;
biðjum vjer heillagoð öll grant
geyma þann höfuðmúsíkant.

## ÞORKELL ÞUNNI.

Friðar biðjum Þorkeli þunna,
þagnar er hann sestur við brunna;
óskemtileg æfi mun vera,
ekkert sjer til frægðar að gera.

Fyrrum hann í saungmanna sessi
sagt er gæti tekið á vessi;

háheljandi glumdi við gleði,
golufyltur naumast sjer rjeði.

Uppstigníngar æðstum á deigi
eingin von er saungmaður þeigi;
hermdu, Bragi, höfðíngi ljóða!
hvurnig gekk þá skrimslinu góða.

Að er komið útgaungusálmi;
eins er það, sem gneistar í hálmi,
þegar rauðum þeytir upp glóðum;
Þorkell verður allur að hljóðum.

Hausinn upp að kórstaf hann keyrir,
kúgast, svo úr nefinu dreyrir;
úr sjer másar óskaparoku,
álíkt dimmri leirhverastroku.

Eins og þegar flugdrekar forðum
fleyttu um loptið glóandi sporðum,
skygðu fyrir sólina sælu,
sátu menn í gjörníngabrælu,

Svo var inn í kórnum að kalla,
kreptist hý á öldruðum skalla;
sumir hættu sjálfir að drynja,
sumir fóru að emja og stynja.

Allir snjeru augum frá jörðu,
upp í rjáfrið grátandi störðu;
skalf og sveigðisk þakið út þanda
Þorkels fyrir losnuðum anda.

Geggjast allur guðsorða lestur,
á grátnum tvístígur prestur,
hleypir nú í hempuna vindi,
hrökkur út úr kirkjunni í skyndi.

Í sama bili er sálmurinn búinn,
situr Keli móður og lúinn;
öllum finst, sem eitthvað sig dreymi,
aldrei meiri þögn varð í heimi.

Djákni fyrstur raknar úr roti,
rann sem mús úr nauðúngarskoti;
fær sjer bók og hættir að hrína,
herðir sig með bænina sína.

Enn á meðan út er að klykkja,
á er komin söguna lykkja;
Þorkell æpir: hættu að hríngja,
hef jeg ekki lof til að sýngja?

Að svo mæltu aptur hann byrjar,
upp og niður geingur og kyrjar;

flýr þá, eins og fæturnir toga,
fólk, sem stæði kirkjan í loga.

Seinna var hann sóttur í kórinn
(svartur var þá á honum bjórinn),
örendur og oltinn á hnakkann,
á útgaunguvessinu sprakk hann.

## STÁTSMEYJAR KVÆÐI.

Státsmey sat í sorgum,
sú var ára tólf;
móðir gekk um gólf,
hrygg í hugarins borgum.

Móðir talar af mæði:
mitt kærasta jóð!
hví ert þú svo hljóð,
eins og und þjer blæði?

Dóttir svarar: mig dreymdi
dýran ýngissvein;
ber því brjóstið mein,
gleði og lyst eg gleymdi.

Gjarnan vil eg giptast,
gefðu mjer þenna strax,
ellegar annars dags
eg mun öndu sviptast.

Þú kant ekki að þýðast
þekkan ýngissvein;
stiltu þitt stráklegt mein,
það skal þjer ei líðast.

Eg kann eflaust náða
úngan hofgarðssvein;
ljótt er að liggja ein,
Venus vill nú ráða.

Þú kant þeygi að spinna
þráð nje hör á rokk,
og ekki að semja sokk,
og ekkert verk að vinna.

Eg skal alt með gjaldi
yfirvinna það;
giptu mig strax í stað,
ef vitinu viltu eg haldi.

Af ástar eld og stikna,
hún upphrópaði svo,
og það til lagði þó:
af böli og ángri eg blikna.

Óvit úngan svanna
út af sló í rot,
passlegt píkubrot
því brúði mátti ei banna.

Dreypa varð á dryllu,
því dauðinn búinn var;
þó um síðir þar
raknaði úr roti illu.

Æ, eg nm það kvarta,
ör í brjóstið fló
ókreinkt; Kúpídó,
sá skálkur, skaut mit hjarta.

Úror igne graví,
ekki er lagið á;
það mun flesta þjá,
amó, amor, amaví.

## BÚÐARVÍSUR.

Búðar í loptið hún Gunna upp gekk,
gráfíkjur nógar og sætabrauð fjekk;
Sigríður niðri í búðinni beið,
bilti við straungum og ljerptið sneið.

Fagurt er loptið og fult er það ull,
fásjeð mun Kristján sýna þar gull;
og leingi var Gunna í loptsölum há
og litverp í framan hún kemur þeim frá.

Síðan tók Kristján silki ágætt
(selja þeir þess háttar öðrum á vætt),
og hvíslar að Gunnu: á herðarnar þín
hafðu hann, fallegur stúlkurinn mín!

Missæl er þjóðin, oss dómunum dýr
dropinn opt gjörist og varníngur nýr,
enn ókeypis stúlkurnar fallegu fá
fyrirtaksklútana Danskinum hjá.

# HÁKALLSBRAGUR.

Sögu jeg seigja vil,
sem híngað fregnin bar;
hlýði nú höldar til:
hákalli stolið var;
læknirinn leið það tjón,
ljek það strákhveplíngur;
Vagla-Jóns var sá þjón,
vesæll og húngraður.

Kirúrgus kallar menn,
kvaðst vilja rausaka
hús öll og heimilen,
helst sinna nágranna.
Riðið að Vöglum var,
vel ferðin heppnaðist;
menn hittu þjófinn þar,
þýfgaður meðkendist.

Fje stolnu frjettu að;
fljótt ansar dreingurinn:
jeg klökkur játa það,
Jón geymir hákallinn;
á kauðann kallið þið.

Kom hinn og reiður sást,
og þessu öllu við
ókunnuglega brást.

Dreingurinn leitar lags,
lagar orð þessa kyns:
hafðu nú híngað strax
hákallinn læknisins.

Jón:
Hákall, hvað seigir þú?

Dreingurinn:
Hákall! já, seigi eg það;
hví vilt því hafna nú,
er höfundur varstu að?

Jón:
Þú stalst.

Dreingurinn:
Já, það var satt,
enn þjer var að kenna samt;
mig til þú hefur hvatt
húsbrots, sem þjer er tamt.
Gjallandi strákur stóð,
stansar hinn við þann són;
alt í kríng þyrptist þjóð,
þrástarði hvur á Jón.

Af skelfíng stirður stár
stála Týr í þeim hríng,
reis hvurt á höfði hár;
háðúngar tilfinníng
og ótti skrokkinn skók;
skalf munnur, túnga, hönd,
hart berjast hjartað tók,
í hálsi kæfð sat önd.

Strákur með stóryrði
stríðheimti fóla sinn:
hjer út, þitt helvíti!
með hákalls böggulinn;
neitaðu nú ei meir,
nú skaltu kúgaður.
Þá æpti fleina Freyr:
æ, farðu nú bölvaður.

Maðurinn meðkendist;
málið kom undir dóm,
er þannig auglýstist
(allir hljóðs gefi tóm):
hákalli strákur stal,
stælti Jón þar til dreing;
hvor annan hýða skal.
Hitti svo loka keing.

# ÞJÓFABRAGUR.

Þórður og Björn þeir þreyttu stríð,
það var austur í Fljótsins hlíð,
komu þar að kvöldi um síð,
kveiktu eld og báru á skíð
í leyni.

Sigrað höfðu eina á,
og voru búnir hana að flá,
kolagröf var hlaðin há,
við hana vildu steikja þá
í leyni.

Báðum þótti um þýfið vænt
(þá var nótt yfir hauðrið grænt)
og töldu framm við funann kænt,
hvor fleiri hefði sauðum rænt
í leyni.

Hóf svo tal með hreinan sann,
og hjelt sig vera afreksmann,
Björn, þar upp á fyrri fann,
fullvel kunni hann reikníng þann
í leyni:

Níu hef eg rollur rjáð
og reynt við þær á sljettri láð;
eingin var svo ofsa bráð,
að ei gæti eg á fæti náð
í leyni.

Hann með sanni hætti þar,
og hjelt af sjer, sem líklegt var;
ekki þótti þetta par
Þórði, og gaf honum aptur svar
í leyni:

Átján hef eg með unda skóð
ærnar fært á heljar slóð,
og nítjándu, sem nú er á glóð,
við náðum báðir að vekja blóð
í leyni.

Það er að auki, Þórður minn!
því nam ansa Björn um sinn,
lambarusl og skorpin skinn
eg skrifa ekki í reikníngin
í leyni.

Þessa vondu þjófaskrá
þegnar meiga heyra og sjá;
ólukkan sú yfir þeim lá,
að einhvur stóð og hlýddi á
í leyni.

# ÞJÓFABÆN.

Veit, að eg sje, faðir! frí
frá því heimskupari að stela;
annars hlytist ílt af því,
ef mistakast kynni að fela;
og þó máske þetta tækist,
þá í sturlun samt eg rækist.

Samviskan, það seigja menn,
sefur opt hjá gömlum þjófum;
svefnstyggari er hún enn
óvönum hjá drísilbófum.
Lát mig aldrei læra að stela,
svo læra þurfi eg ei að fela.

Áður var fyrir ýtum brýnt,
eilífð hörð að þjófum væri,
nú er oss það sjaldnar sýnt;
samt eg tek því ekki fjærri,
óráð nefnast mönnum meiga,
mikið undir henni að eiga.

Eg það heyri, ei til neins
á þig sje, minn drottinn! kalla;
það eg gjöri því að eins,
það að gjöra sje eg alla;
einhvur kynni yfir því dylgja,
ef eg landssið vildi ei fylgja.

---

## LOKA HEILRÆÐI.

---

Hlýð þú, minn sonur! á heilnæm ráð,
og gá,
og lát þau aldrei úr minni máð
þjer frá;
á jörðu muntu þá lifa leingi
í lukku blíðasta sumargeingi;
hæð eigi, hvað seigi,
enn hugsaðu, þetta svo vera meigi.
Ójá.

Sjáirðu höfðíngja einhvurn einn
lángt frá,
gríp hattinn, veslíngur! vertu seinn
ei þá,

og haltu þjer fyrir aptan enda,
enn aldrei máttu honum rumpinn venda;
svo þeigðu, þig beygðu,
með þrælaviðmóti bljúgt til hans eygðu.
Já já.

Ef herrann kallar af hárri náð
þig á,
svo vit, hann hefur þig vald og ráð
að flá;
auðmjúkur drag þig á öðrum fæti,
enn aktu hinum svo lángs að stræti;
beyg hausinn, byrg dausinn,
þau burðugu þeigjandi hlýð á rausin.
Já já.

Kemst ykkur dálítið orðakryt
upp hjá,
í eingu orði hans verður vit
að sjá,
og ber það á framm sem böðlar plaga,
svo ber þig, hlustirnar undir laga;
mæl: herra! minn herra!
mín meiníng er vitlaus, og því er verra.
Já já.

Ef eitthvað falar hans ágirnd þjer
í frá,
til dæmis: kýr eða klára, smjer
og há,
þá máttu þeinkja, þú ekkert eigir,
því alt er hans; er því skylt þú seigir:
ó, takið og rakið
alt saman, sem þóknast, og til ei slakið.
Já já.

Ef verður skyssa þjer einhvur á,
þó smá,
þú rætist upp með hans reiðiljá
sem strá,
á gólfið fyrir hann flatt þig legðu,
fórnaðu höndum í lopt og segðu:
mjer vægið, böl bægið,
minn blessaði drottinn! æ reiði lægið.
Já já.

Ef viltu höfðíngjans vild og ást
þjer ná,
stórgjöfum ætla eg allra skást
að sá;
á ári til hans einn reiðhest rektu,
reiðtýgi fögur, og seigja þektu:

þjer eigið hestgreyið,
og honum jafnt, sem mjer, ríða meigið.
Já já.

Ber þig að kveikja svo raman róg,
sem má,
og ljúgðu, hafirðu hvurgi nóg
að skrá;
með synda annara saur afmáðu,
sem sápu, illverk þín, og tjáðu:
hvað geingur hjer? dreingur
nú hefur ei samvisku bera leingur.
Já já.

Alt, hvað hann skipar þjer yfir jörð
og á,
hvort rjett er, ellegar ólög hörð,
að sjá,
umþeinkíng taktu þjer ætíð stutta,
því eins og hundurinn lát þjer trutta:
í hælinn ófælinn
á öllum, hann skipar, set góma nælin.
Já já.

Við hvurn mann vinlegur vertu út
í frá,

og tæmdu honum þinn tóbakskút,
og tjá:
æ, hvurninn lifirðu? heillabróðir!
mitt hjarta kæta svo vinir góðir;
lát kossaflens fossa,
af falsi þeim ganta í veðrið hossa.
Já já.

Ef hluta gjöra kann einhvur einn
þinn á,
misþokka láttu ei merkjast neinn
þjer hjá,
enn byrg þú hatrið í brjósti þínu,
ber þig, að hugsa upp ráðin fínu,
þín hefna, helst stefna
í hættu og skömm þínum óvin gefna.
Já já.

Úr brjósti otaðu allri trygð
þjer frá;
ofsæktu alla um breiða bygð
þjer hjá;
ef skotið hæfir þinn skyldubróður,
til skýja hefst upp þinn mannorðshróður;
rækt fleygðu, á tál teygðu,
með tónni út úr þjer sjálfum smeygðu.
Já já.

Í tali daglegu temdu þjer
list þá
(því lævís henni hann Lúsífer
kom á),
sem greiðast bibliúgreinum sletta,
guðræknin sje þjer að skýlu pretta;
á skálksbelgi skinhelgi
hest skartar, þig aldrei við henni velgi.
Já já.

Í ræðu varastu vera hreinn,
því þá
ei klókur verða skal virða neinn
þjer á,
og haldinn verðurðu hyggnismaður,
sem hugsar meira enn fleipríngsþvaður;
því grunda, það stunda,
þinn munnur sje jafnan eitt hús völundar.
Já já.

Í máli skulirðu dæma dóm
drótt hjá,
þjer skiptu aldrei um rjettan róm
því á,
enn lát alt flakka, sem vömbin veltist,
varastu, pýngja þín ekki sveltist,

með þúngum því púngum
þú þarft yfirrjettar ei kvíða túngum.
Já já.

Í allra slettu þjer manna mál,
og sjá,
að nægast verði af neista bál
þeim hjá;
þess eina huga þeim öðrum seigðu,
og aldrei svo yfir neinu þeigðu;
þig vara, vjel spara,
og vertu ein eilíf hræriþvara.
Já já.

Ef einhvur sínum vill eymdum frá
þjer tjá,
og girnist hjálp eður huggun fá
þjer hjá,
þá láttu eins og þín iður bresti,
hans aumkva sárlega gæfulesti;
enn mæðu hans hlæðu
í hóp þinn, og brúkaðu skympisræðu.
Já já.

Kepp þú, hið frekasta fátækan
að flá,

hirð ei, þó grátandi gángi hann
þjer frá;
á honum áttu það upp að vinna
alt, sem þeir mektugu frá þjer ginna;
þá smærri þeir stærri
að þorskarnir svelgi, er lagi nærri.
Já já.

Aldrei hugsaðu annan heim
upp á,
það máske ángurs þjer kynni keim
að slá;
gleð þig, að náúngar seinast seigja:
sá sæli höfðíngi nú rjeð deyja;
og rakki á flakki
mun á þína gröf hlaða minnisstakki.
Æ já.

## ÓLAFUR REIÐ MEÐ BJÖRGUM FRAMM.

Ólafur reið með björgum framm,
villir hann,
stillir hann,
hitti fyrir sjer álfarann,
þar rauður loginn brann,
:|: blíðan lagði byrinn undan björgunum :|: framm.

Þar kom út ein álfamær,
villir hann,
stillir hann,
hún var ekki Kristi kær;
þar rauður loginn brann,
:|: blíðan lagði byrinn undan björgunum :|: framm.

Þar kom út ein önnur,
villir hann,
stillir hann,
hjelt á silfurkönnu;
þar rauður loginn brann,
:|: blíðan lagði byrinn undan björgunum :|: framm.

Þar kom út hin þriðja,
villir hann,
stillir hann;
með gullband um sig miðja;
þar rauður loginn brann,
:|: blíðan lagði byrinn undan björgunum :|: framm.

Þar kom út hin fjórða,
villir hann,
stillir hann,
hún tók svo til orða,
þar rauður loginn brann,
:|: blíðan lagði byrinn undan björgunum :|: framm.

Velkominn, Ólafur liljurós!
villir hann,
stillir hann,
gakktu í björg og bú með oss;
þar rauður loginn brann,
:|: blíðan lagði byrinn undan björgunum :|: framm.

Ekki vil eg með álfum búa,
villir hann,
stillir hann,
heldur vil eg á Krist minn trúa;
þar rauður loginn brann,
:|: blíðan lagði byrinn undan björgunum :|: framm.

Þó þú gjörir með álfum búa,
villir hann,
stillir hann,
samt mátt þú á Krist þinn trúa;
þar rauður loginn brann,
:|: blíðan lagði byrinn undan björgunum :|: framm.

Bíddu mín um eina stund;
villir hann,
stillir hann,
meðan eg geing í grænan lund;
þar rauður loginn brann,
:|: blíðan lagði byrinn undan björgunum :|: framm.

Hún gekk sig í kistu,
villir hann,
stillir hann,
lagði yfir sig skikkju;
þar rauður loginn brann,
:|: blíðan lagði byrinn undan björgunum :|: framm.

Hún gekk sig til arkar,
villir hann,
stillir hann,
tók upp saxið snarpa;
þar rauður loginn brann,
:|: blíðan lagði byrinn undan björgunum :|: framm.

Ekki muntu svo hjeðan fara,
villir hann,
stillir hann,
að þú gjörir mjer kossinn spara;
þar rauður loginn brann,
:|: blíðan lagði byrinn undan björgunum :|: framm.

Ólafur laut um söðulboga,
villir hann,
stillir hann,
kysti frú með hálfum huga;
þar rauður loginn brann,
:|: blíðan lagði byrinn undan björgunum :|: framm.

Saxinu hún stakk í síðu,
villir hann,
stillir hann,
Ólafi nokkuð svíður;
þar rauður loginn brann,
:|: blíðan lagði byrinn undan björgunum :|: framm.

Ólafur leit sitt hjartablóð,
villir hann,
stillir hann,
líða niður við hestsins hóf;
þar rauður loginn brann,
:|: blíðan lagði byrinn undan björgunum :|. framm.

Ólafur keyrir hest með spóra,
villir hann,
stillir hann,
heim til sinnar móður dyra;
þar rauður loginn brann,
:|: blíðan lagði byrinn undan björgunum :|: framm.

Klappar á dyr með lófa sín,
villir hann,
stillir hann,
ljúktu upp, kæra móðir mín!
þar rauður loginn brann,
:|: blíðan lagði byrinn undan björgunum :|: framm.

Fatta hafði hann fingur og smá,
villir hann,
stillir hann,
með listum plokkar hann lokuna frá;
þar rauður loginn brann,
:|: blíðan lagði byrinn undan björgunum :|: framm.

Því ertu fölur og því ertu fár,
villir hann,
stillir hann,
eins og sá, sem með álfum gár?
þar rauður loginn brann,
:|: blíðan lagði byrinn undan björgunum :|: framm.

Ei er eg fölur og ei er eg fár,
villir hann,
stillir hann,
eins og sá, sem með álfum gár;
þar rauður loginn brann,
:|: blíðan lagði byrinn undan björgunum :|: framm.

Móðir! ljáðu mjer mjúka sæng,
villir hann,
stillir hann,
systir! bittu mjer síðuband;
þar rauður loginn brann,
:|: blíðan lagði byrinn undan björgunum :|: framm.

Móðir gaf honum mjúka sæng,
villir hann,
stillir hann,
systir batt honum síðuband;
þar rauður loginn brann,
:|: blíðan lagði byrinn undan björgunum :|: framm.

Ei leið, nema stundir þrjár,
villir hann,
stillir hann,
Ólafur var sem bleikur nár;
þar rauður loginn brann,
:|: blíðan lagði byrinn undan björgunum :|: framm.

Ei leið, nema lítil stund,
villir hann,
stillir hann,
Ólafur úngi gaf upp önd;
þar rauður loginn brann,
:|: blíðan lagði byrinn undan björgunum :|: framm.

Vendi eg mínu kvæði í kross,
villir hann,
stillir hann,
sánkte María sje með oss;
þar rauður loginn brann,
:|: blíðan lagði byrinn undan björgunum :|: framm.

---

## GRÝLUKVÆÐI.

Ekki linnir umferðunum
í Fljótsdalinn enn;
:|: það sjer á, að þar búa
þrifnaðar :|: menn.

Það sjer á, að þeir ala
bæði gángandi og gest,
:|: förumanna flokkarnir
fara þángað :|: mest.

Förumanna flokkarnir
og kellínga krans,
:|: þó nú taki átján yfir
umferðin :|: hans.

Þó nú taki átján yfir,
ef það er satt,
:|: að þar sje komin Grýla,
sem geta aungvir :|: satt.

Að þar sje komin Grýla,
grá eins og örn;
:|: hún er svo vandfædd,
hún vill ekki nema :|: börn.

Hún er svo vandfædd,
hún vill ei börnin góð,
:|: heldur þau, sem hafa miklar
hrinur og :|: hljóð.

Heldur þau, sem löt eru
á lestur og saung;
:|: þau eru henni þægilegust,
þegar hún er :|: svaung.

Þau eru henni þægilegust,
það veit eg víst;
:|: ef þau þektu Grýlu,
þau gjörðu þetta :|: síst.

Eg þekki Grýlu,
og eg hef hana sjeð;
:|: hún er bæði ófríð
og illileg :|: með.

Hún er svo ófríð,
að höfuðin ber hún þrjú;
:|: þó er ekkert minna,
enn á miðaldra :|: kú.

Þó er ekkert minna;
og það seigja menn,
:|: að hún hafi augnaráðin
í hvurju :|: þrenn.

Að hún hafi augnaráðin
eldsglóðum lík,
:|: kinnabeinin kolgrá,
og kjaptinn eins og :|: tík.

Kinnabeinin kolgrá,
og hrútsnefið hátt;
:|: það er í átján hlykkjunum,
þrútið og :|: blátt.

Það er í átján hlykkjunum;
enn hárstrýið hart
:|: ofan fyrir kjaptinn tekur,
kleprótt og :|: svart.

Ofan fyrir höku taka
tennurnar tvær;
:|: eyrun hánga sex saman
sítt ofan á :|: lær.

Eyrun hánga sex saman
sauðgrá á lit,
:|: hökuskeggið hæruskotið
heilfult af :|: nyt.

Hökuskeggið hæruskotið,
og hendurnar þá
:|: stórar eins og kálfskrof,
og kartnöglur :|: á.

Stórar eins og kálfskrof
og kolsvartar þó;
:|: nógu er hún lendabreið
og þrifleg um :|: þjó.

Nógu er hún lendabreið
og lærleggjahá,
:|: njólafætur undir
og naglkörtur :|: á.

Njólafætur undir
kolsvörtum kvið;
:|: þessi þykir grálunduð
grátbörnin :|: við.

Þessi þykir grálundnð,
gipt er hún þó;
:|: hennar bóndi Leppalúði
liggur við :|: sjó.

Hennar bóndi Leppalúði
lúnóttur er;
:|: börnin eiga bæði saman
brjóstheil og :|: þver.

Börnin eiga bæði saman
þverlynd og þrá;
:|: af þeim eru jólasveinar,
börn þekkja :|: þá.

Af þeim eru jólasveinar,
jötnar á hæð;
:|: öll er þessi ilskuþjóðin
úngbörnum :|: skæð.

Sagt er þetta illþýðið
sje hjer ekki fjær,
:|: upp á dal í urðarbrauni
er þeirra :|: bær.

Upp á dal í urðarbrauni
fjölmenni frá;
:|: annað bú í Brandsöxl
bölhyskið :|: á.

Skortur er á börnum
í Brandsöxlum nú,
:|: kreikar því á verðgánginn
kafloðin :|: frú.

Hendir úr á verðgángi
höfuðbólin fyst;
:|: hún hafði sagt að Víðivöllum
væri leiðin :|: styst.

Úti stóð á Víðivöllum
yfirburðamann;
:|: glotta rjeð hún Grýla,
og heilsaði upp á :|: hann.

Glotta rjeð hún Grýla,
og gjörði svo að tjá:
:|: lánaðu mjer barnkorn,
mjer liggur nú :|: á.

Lánaðu mjer barnkorn,
sem leiðindin kann;
:|: er mjer sagt, hún litla Sigga
sýngi tóninn :|: þann.

Mjer er sagt, hún litla Sigga
sýngur og hrín;
:|: eg vil ekki plátsbera
piltana :|: þín.

Eg vil ekki plátsbera
jafngóða menn,
:|: þó eg stundum heyra meigi
hljóðfærin :|: tvenn.

Þó eg stundum heyra meigi
hljóðfærin ný,
:|: þeir munu ei falir vera,
það er helst í :|: því.

Þeir eru ekki þjer falir,
það sagði hann,
:|: og eingin önnur úngbörnin
í mínum :|: rann.

Eingin þau úngbörn,
er eg fæði hjer;
:|: þú ert nokkuð, drós mín!
dentug í :|: þjer.

Þú ert nokkuð, drós mín!
dentug og frökk;
:|: far þú burtu hjeðan,
og haf þú minni :|: þökk.

Hvurgi fer eg hjeðan,
hún Grýla kvað;
:|: fleiri veit eg brekabörn,
ef fara skal í :|: það.

Fleiri veit eg hrekabörn,
ef við þau er átt;
:|: semdu við mig, sýslumaður!
svo eg tali :|: fátt.

Fáðu mjer í samnínginn
fjásamanninn þinn;
:|: hann er, rjett mátulegur
munnbiti :|: minn.

Hann er svo sem mátulegur,
mjer liggur á,
:|: heldur enn eg opinberi
alt, það eg :|: má.

Heldur enn eg opinberi
alt, það eg veit.
:|: lofaðu mjer eina ferð
um alla þessa :|: sveit.

Lofa þú mjer eina ferð
í útvegur mín;
:|: máske að eg þyrmi heldur
þeim smáu :|: þín.

Máske að eg þyrmi heldur,
þó eg sjái tvo
:|: leika sjer í leyni
og láta svo og :|: svo.

Leika þeir í leyni
svo liðlega nóg,
:|: ekki heldur kvíða þeir
við kellíngar :|: róg.

Ekki heldur akta þeir
þitt álygatal;
:|: þú mátt fara ferða þinna
þvert yfir :|: dal.

Þú mátt fara ferða þinna,
og fást ei við mig;
:|: ekki get eg sjeð af þeim
sona við :|: þig.

Heldur get eg sjeð af þeim
sauruga þjón,
:|: enn að þú ólmist
sem óarga :|: ljón.

Heldur enn þú ólmist
við úngviði mitt,
:|: fremdu nú svo friðsamlega
ferðalagið :|: þitt.

Fardu nú svo friðsamlega
ferðunum að.
:|: Sælir, sagði Grýla,
og gekk sig á :|: stað.

Sælir, sagði Grýla,
og gekk ofan í fjós;
:|: hvessa tók hann Bjarni
hvarmanna :|: ljós.

Hvesti Bjarni augun
og hugsaði ei par;
:|: þar fóru ekki sögur af,
hún svelgdi hann :|: þar.

---

## NÆTURGISTÍNG.

Að bygðum seint mig bera eitt sinn náði,
bærinn stóð við sjó á grænu láði;
drepa högg á dyr mjer varð að ráði,
dagsett var, því næturhvíld eg þáði;
út kom bóndi, að ætlan minni gáði,
ekki hýr var fólinn sinnisbráði;
á kollhúuna kauðans þessa gljáði,
kámug var, jeg full vel að því gáði;
hans á fati hvur einn saumur fláði,
hvítum, svörtum stagað alt með þráði;
eins og ganti orðið hvurt við hváði,
æði leingi framan í mig kjáði;
húsa baðst eg, hann kvað það sig þjáði,
húsráðandinn valla þessu jáði;

vanefni sín taldi öll og tjáði,
talíð reyndar þetta mitt forsmáði;
mannum hófa mjög lítið þó stráði,
moðhárum í stallinn niður sáði;
í baðstofunna bauð mjer, það eg þáði,
brúðirin hans á gólfi vefinn kljáði;
kaunug börnin kuldinn of mjög þjáði,
konutetrið aungvan gluggann skjáði;
eg um kvöldið ullarreytur táði,
þó ekki væri það að neinu ráði;
borinn var innar bruðníngur og gráði,
bíslátt þenna hafði hvur, sem náði;
svoddan rjettur sagði eg væri dáði,
seggurinn tók það gjörvalt upp með háði;
hann ýgldi sig, enn aungvu góðu spáði,
ílt þó eg ei nokkuð við hann rjáði;
til rúms mjer fylgdi snúðuglegur snáði,
snögt að seigja, þá eg fötum náði,
flær og annað fleira við mig rjáði,
ferlegt stríð, so nógur gafst mjer kláði;
þá morna tók, eg mig í burtu hrjáði,
mjer það seinna einginn heldur láði;
því alt í kríngum kotið vatnið fláði,
svo klárnum nærri hvurgi þar eg áði;
hjónin þessi nú þó einginn náði,
nóg er vel, þó einhvur um þau skráði.

## ÍSLANDS ELLIVÆLA.

Ísland bestum blóma
búið fyrrum var,
fullt með flot og rjóma
feitt afkvæmi bar;
presta studdi blessan bú,
djöfli, víti, ár og álf
öldin trúði sú.

Nú er öldin önnur,
öll af dygðum snauð;
helt er hlandi á könnur,
heilög trú er dauð;
alt er komið í ærsl og busl,
andleg sálma er orðin bók
andskotalaust rusl.

## FROST OG KULDI KVELJA ÞJÓÐ.

Frost og kuldi kvelja þjóð,
koma nú sjaldan árin góð;
ekki er nærri öld svo fróð
í guðsorði kláru,
sem var hún á villuárum.

## FRÁ LANDFYSÍKUSA.

Frá landfysíkusa
fljóta dauðleg sár;
þegar hann bregður busa,
beljar dauðinn grár;
albúm grekum gefur hann inn;
apótekið íslenska
er eilífur hundsrassinn.

## LANDS FRÁ LÆKNI FLÝTUR.

Lands frá lækni flýtur
líf og heilsubót;
allvel egg hans bítur
afli dauðans mót;
inntökurnar auka prís;
látum heita Læknisnes
litlu paradís.

## OFDRYKKJU VIÐURSTYGÐ.

Brennivín brjálar minni,
brennivín hvessir tennur,
brennivín bríxlum annar,
brennivín losta kennir,
brennivín barkar munninn,
brennivín heilsu grennir,
brennivín bruggar flönnum
brennandi kvala spennu.

Brennivínsdrykkja bönnuð
brýtur grið, heiptum flýtir,
skaðar vit, skerðir heiður,
skúfar dygð, hræsni ljúfust,
ergir lán, eignum fargar,
ærir geð, losta nærir,
deyðir sál, djöfulinn gleður,
drottins rjettindi spottar.

Augu manns öll aflagar,
eyrnanna deyfist heyrnin,
málið í munni þvælir,
meinar styrkleika beinum,
hokinn líkama hrekur
hnjótandi biltum ljótum,
útbýjar alt ágæti
ölvaðra; fari hún bölvuð.

---

## ANKÍSES BAR ÚNGUR.

Ankíses bar úngur
ægishjálm og skjöld;
enn þegar Lofnar þúngu
þáði elligjöld,

hjálmi og sverði kastaði í krók;
í þess stað á sig maðurinn mær
mýtur og bagal tók.

---

## ALDARHÁTTUR.

Híngað gekk hetjan únga
heiðar um brattar leiðir,
fanna mundar að finna
fríða grund í bríð stundum;
nú ræðst einginn á eingi
(í ástarbáli fyr sálast),
styttubands storð að hitta
stýrir priks yfir mýri.

---

## SJER SJÁLFUM NÆSTUR.

Sætan átti sjúkan mann,
sjer kaus dauða, ef lifði hann;

þegar Hel sjer þreingdi inn,
þarna er, seigir hún, maðurinn.
Hvur finst næstur sjálfum sjer, nær sorg er stinn.

## MÖRÐUR TÝNDI TÖNNUM.

Mörður týndi tönnum,
til það kom af því,
hann beit í bak á mönnum,
svo beim festi í;
þó er gemlan eptir ein,
það er hin hola höggormstönn,
helst er vinnur mein.

## VONDSLEGA HEFUR OSS VERÖLDIN BLEKT.

Vondslega hefur oss veröldin blekt,
vjelað og tælt oss nógu frekt,
ef eg skal dæmdur af danskri slekt
og deyja svo fyrir kóngsins mekt.

## Á HRAFNKELSSTÖÐUM BÓNDI BJÓ.

Á Hrafnkelsstöðum bóndi bjó
Bessi fyr á dögum,
eldi bæði og eitri spjó
eptir norsku lögum.

## Á SKRIÐUKLAUSTRI VALDSMANN VAR.

Á Skriðuklaustri valdsmann var
Víum fyr á dögum,
með korða sínum kauða skar
kontra norsku lögum.

## HEILÖG JALAPPS HNIPIN SITUR RÓT.

Heilög jalapps hnipin situr rót,
emjar sáran ípekakúana,
assan fúla beljar gleðivana:
:|: hvur á vorum hörmum ræður bót? :|:

Á stólpípu Eskúlápur blæs,
endann mjórri í munni sjer hann hefur;
megnisdrunum saung þann blaðran gefur:
:|: mjer var sýnd, enn ekki gefin, gæs. :|:

## KLÁUS SÆNGURSVIÐIÐ Á.

Kláus sængursviðið á
setti skut;
seggurinn fjekk af seiðum smá
sjö í hlut;
enn um nóttina öllum
:|: úr skut :|:
þeim helti hlut;
svo fór um sjóferð þá.

## KALLARAUP.

Úngur þótti eg með saung
yndi vekja í sveina glaumi;
enn öllum nú finst æfin laung,
þá í þeir heyra :|: drynja gömlum raumi. :|:

Úngir sýngja ýtar ný
óðarlög með flugi og köfum;
enn höldi glymja öldnum í
eintóm hljóð úr :|: forfeðranna gröfum. :|:

Úngur sýng þú, mest sem mátt,
meðan hljóðin fagurt gjalla,
brátt því hætta í elli átt,
áður enn lýðir :|: saung þinn náhljóð kalla. :|:

## YFIR HAUG ÍNGÓLFS LANDNÁMAMANNS.

Stóð af steindu smíði
staður fornmanns hlaðinn;
hlóðu að herrans boði
heiðið teikn yfir leiði;

haugur var hár og fagur
hrundinn saman á grundu,
enn draugur dimmur og magur
drundi í björgum undir.

## LÖGBÓKARVÍSUR.

Kóngarnir drekka kryddað vín,
krásir drottníngar taka til sín,
byskupar súpu sæta;
ljensherrar brauði lifa á,
lögmenn vilja í kaupið fá
grjónanna grautinn mæta;
sýslumenn eta fleskin forn,
fá sjer hreppstjórar hákallskorn,
bændurnir skötu barða,
prestarnir brauð og brennivín,
á blám klútum þurka skeggin sín,
húsgángur ýsu harða.

Ferðamenn eta fisk og smjer,
flot og kjöt ríkir geyma sjer,
böðlarnir blóðmör snæða;

börnin riklínginu brytja sjer,
bjúgu og sperðla þjófarner,
sváuga má sölin fæða;
ýngisfólk flautir eta kann,
aldraðir þiggja mjólksopann;
stafköllum strjúg skal senda,
tannlausum soðinn sundmagann,
sjómönnum kútmaga' lifraðan.
Er nú lögbók á enda.

---

## HRINGR BRAST, HJUGGUST DRENGIR.

Hringr brast, hjuggust drengir,
hjálmr gnast, bitu málmar,
rönd skar, rekkar týndust,
ruðust sverð, hnigu ferðir;
brandr reið, blæddu undir,
ben sullu, spjör gullu,
brast hjörr, brynjur lestust,
beit skjómi, dreif sveita.

Sverð ruðust, sæfðust ferðir,
svall ben, valr lá fallinn,
und raut, álmar bendust,
ör flaug, beitt varð hjörvi;
herr fjell, geirar gullu,
gnast líf̄ð, ramn brá fasto,
oddr beit, ernir söddust,
úlfr fyltist, vje skulfu.

---

## HANI, KRUMMI, HUNDUR, SVÍN.

Hani, krummi, hundur, svín,
hestur, mús, titlíngur,
galar, krúnkar, geltir, hrín,
gneggjar, tístir, sýngur.

## ALÞÍNGISVÍSUR.

Þú, sem fyrir skemstu
skaust úr hýði,
er fótum horfir
að fjöllum Eyja,
taktu þjer orlof
hjá týri Gimla,
og auktu afl
alþíngis vini.

Hans undir rætur
hverfðu túngu,
svo meigi hann mæla
af megni þínu,
að slóðir áa
hinir ýngri virði,
og rísi þjóðarþíng
á Þíngvelli.

## DAGR ER UPP KOMINN.

Dagr er upp kominn,
dynja hana fjaðrar;
mál er vílmögum
at vinna erfiði.
Vaki ok æ vaki
vina höfuð,
allir hinir æðstu
Aðils ofsinnar.

Hár hinn harðgreipi!
Hrólfr skjótandi!
ættgóðir menn,
þeir er ekki flýja!
vekat ek yðr at víni,
nje at vífs rúnum,
heldr vek ek yðr at hörðum
Hildar leiki.

## HERGÁNGA.

Sortanum birta bregður frí,
brýst í austri roði um ský,
  fagur um haga
  dregur dagur,
dynur hana fjöðrum í;
vakið ósmeikir, vinir! því,
vakið og takið stál og blý;
  mál er óveilum
  hölum heilum
harða í sverðarimmu á ný.

Vek eg ei mjúka mey að sjá,
mjaðar eður að glaðri lá,
  heldur Hildar
  halda ómildan
hrikaleik yfir bleikum ná,
þá er spúir blýi blá
brúður óprúð úr munni grá;
  senn munnum finna
  og sennu kanna
svángra stíngja byssum á.

Dragið óragir bitran brand,
boðið nú fjendum andar grand,
greiðið ótrauðir
dauða mót dauða,
dauðir áður enn kyssum sand.
Hefðarlegt er hermanns stand,
hreysti ei bresti vort samband;
heiður er fríður,
bræður blíðir!
blóði föður vernda land."

# NOKKUR ORÐ.

## A.

**Aðils**, konúngur í Svíþjóð, mágur Hrólfs kraka.
**Akkiles**, nafnfræg hetja (á Grikklandi).
**album grekum**, hundadrítur.
**amó, amor, amaví**: jeg elska, jeg er elskuð, jeg hef elskað.
**Ankíses**, mannsnafn.
**Appollín**, sama sem Appolló.
**Appolló**, skáldaguð (Grikkja og Rómverja).
**assan fúla** (á latínu: assa fœtida), eins konar kvoða.
**Atlantshaf**, hið vestlæga úthaf.

## Á.

**álmdrós**, ör.
**álmur**, bogi.
**Ángantýr** (á 63. bls.), sama sem Óðinn. Ángantýrs hregg: orusta.

## B.

**Bakkus**, vínguð (Grikkja og Rómverja).
**Baldur** (á 13. bls.), hestsnafn.
**Basan**, fjall austan til við Jórdán.
**behager** (á 163. bls.), þóknast.
**begere**, biðja um, beiðast.
**beitilúngur**. lúngur er hestur, beitilúngur geima: skip.
**bifrokinn**, særokinn.
**blakkur**, hestur. blakkur sævar: skip.
**blikseimur**, blikandi gull.
**blíve** (á 165. bls.), verðum.
**brimvöllur**, sjór. brimvallar grandar: öldur.
**búðen** (á 163. bls.), búðinni.
**bör** (á 165. bls.), átt (að).

## C.

**Clyde** (Klæð), fljót á Skotlandi.

## D.

det, það.
dígulfarmur (farmur díguls eða deiglu), gull.
Dóná, fljót, er fellur í gegnum Austurríki.
dú, þú.

## E.

Edar, stöpulheiti (á Gyðingalandi).
ein (á 165. bls.), einn.
Eskúlápur, lækníngaguð (Grikkja og Rómverja).
Evan, eitt af heitum Bakkusar.

## F.

fann-deigul-skafl (fannskafl deiguls eða deiglu), silfur.
fasto (á 228. bls.), föstu.
feima, óframmfærin kona.
Fenja. Fenja og Menja mólu gull fyrir Fróða konúng í Danmörku, svo lítur út, sem ágjarnir menn sje kallaðir Fenju dragkvarnir (á 69. bls.).
ferðir (á 227. bls.), menn.
Fofnir, mannsnafn. Fofnir brást í ormslíki, og lagðist á gull; því er gull kallað: skriðjörð Fofnis (orms).
Forth (Forþ, Forð), fljót á Skotlandi.
fólknárúngar, höfðíngjar, fyrirmenn.

## G.

goim-foldarnegg. foldarnegg (foldar hjarta) er steinn, geim-foldarnegg: geimsteinn (gimsteinn).
geimi, sjór.
getkat (á 126. bls.), get eg ekki.
gló-Kraka-sáð. Kraka sáð er gull, gló-Krakasáð: glóandi gull.
góðe. have til góðe hús (á 165. bls.): eiga hjá.
gramsrúni, hirðmaður.
gúð, guð.

## H.

halv (á 165. bls.), hálfan.
harðgreipur, harðfeingur.
have, hafa.
haver (á 165. bls.), hafið.
Hár (á 61. bls.), eitt af heitum Óðins. Hárs eldur (Óðins eldur): sverð. Hárs eldar hríð: orusta. Á 230. bls. er Hár mannsnafn.
her (á 165. bls.), hjer.
Hildur, valkyrja.
Hlökk, valkyrja. tjald Hlakkar: skjöldur.
Hóratsíus, rómverskt skáld, er var uppi nokkuru fyrir Krists daga.
hringr (á 147. bls.), skip.
hrun (?). gullshrun (á 109. bls.), kvennmanns kenníng.

**hús** (á 165. bls.), hjá.
**Hveðra**, tröllkonu heiti.
**byrgráð** Hveðru (vindur tröllkonu): hugur.
**Hyrr.** hyrr er eldur; Eldur er jötuns heiti; vindur Hyrjar (jötuns): hugur.
**höfuðmúsíkant**, höfuðsaungvari, mikill saungmaður.

## I.

**Ilía**, nafn rómverskrar drottníngar.
**ilþorn** (þorn iljar), kló.
**innbúar steina**, dvergar. sundferja dverga: skáldskapur.
**inter pokúlá**, við staup, við drykkju.

## Í.

**í**, á 163 bls., í 16. lín. (á seinni staðnum), og á 165. bls.: þjer.
**ípekakúana**, jurtar heiti.
**ísarnslóð**, járnbraut.

## J.

**jalappsrót**, á lat. jalappa.
**jálma**, hristast, bifast.
**jer** (á 163. bls.), yður.

## K.

**kalabriskur**, frá Kalabríu (hjeraði á sunnanverðri Ítalíu).
**Kalais**, (rómverskt) mannsnafn.
**kaliskur**, frá Kales (bæ í Ítalíu).
**kedros**, viðar heiti.
**keðros**, sama sem kedros.
**kírúrgus**, (sára)læknir.
**klare** (á 165. bls.), lausir hvor við annan. so blíve ví klare: þá stenst á hjá okkur.
**Klóa**, (rómverskt) konuheiti.
**kontra**, á móti.
**Kúpídó**, ástarguð (Rómverja).

## L.

**Lág**, fljót í Austurríki.
**liðs handar leggur** (leggur handarliðs), frammhandleggur (úlnliður), á 63. bls.
**Lins**, bær í Austurríki.
**ljós mundar**, gull.
**Líbanon**, fjall á milli Gyðínglands og Sýrlands (hins forna).
**lífð**, hlífð, hlíf.
**Líris**, fljót í Ítalíu.
**Lofn**, ein af Ásynjum. hún var mild og góð til áheita, og fjekk leyfi af Alföður eða Frigg til manna samgángs, kvenna og kalla.
**lúnóttur**, dutlúngasamur.
**Lúsífer**, skolli.
**Lydía**, (rómverskt) konuheiti.

## M.

**malva**, jurtar heiti.
**Mardöll**, eitt af heitum Freyju. Mardallar grátur: gull.
**málmþíng**, orusta. málmþíngs meiðir (?, á 125. bls.), kallmanns kenníng.
**melódía**, lag.
**Metterník**, mannsnafn. Metterník var leingi ráðgjafi Austurríkiskeisara.
**Mist**, valkyrja. spor Mistar skálma: sár.
**Mínerva**, mentagyðja (Rómverja).
**Mógol** (eða Mógúl). svo voru kallaðir stjórnendur Móngolaríkis (í Austurálfunni) eptir daga Tamerlans. Mógols lækníng: tóbaksreykur.
**Móría**, Heimska (gyðja heimskunnar, hjá Grikkjum og Rómverjum).
**mundó** (á 80. bls.), heimi.
**mundus**, heimur.
**mæ**, mig.

## O.

**ofsinni**, sinni, fylgdarmaður. Aðels ofsinnar: svo kallast kappar Hrólfs kraka, af því þeir veittu Aðils fylgd móti Ála konúngi. [ávöxtur.
**oliva**, viðsmjörsviðar-
**Orníturr**, (rómverskt) mannsnafn.

## Ó.

**óleum**, viðsmjör.

## P.

**Persar**, þjóð í Austurálfunni.

## R.

**ramn**, hrafn.
**raut** (á 228. bls.), hraut.
**Rín**, fljót, er fellur til sjávar á Hollandi.
**rít**, skjöldur. rita jel: orusta.
**rönd** (á 69. og 227. bls.), skjöldur. randa þruma: orusta.

## S.

**Sagarbjarg** (Sierra), svo heita mörg fjöll á Spáni.
**Sardinía**, ey fyrir vestan Ítalíu.
**sánkte** (á 206. bls.), helg, heilög.
**sáreldur**, sverð. sárelda sálmur: orusta.
**seimur**, gull. seims Njörður: kallmanns kenníng.
**Sikkkem**, bær í Samaríu.
**sikória**, jurtar heiti.
**skal** (á 165. bls.), skuluð.
**skervöllur**, sjór. skervallar skíð: skip.

skóð, skaðaverkfæri, eggvopn.
Skögul, valkyrja. Sköglar hviða: orusta.
sol sol fá sol fá (á 99. bls.), saungorð (sb. Grallarann).
sparnir (á 69. bls.). svo lítur út, sem þetta sje þolandi fleirtölunnar af spörn (sparnaður; sb. vörn, varnaður). í sparnir: til að spara, til að draga saman.
Spílberg, dýblissa í Brunn (bæ í Austurríki).
spjör, skotvopn, spjót. spjörflugur (á 65. bls.): spjörflug, fljúgandi spjör.
Syría, sama sem Sýrland.
Sýrland, land í Austurálfunni.
sörvar. sörvar eru 7 tigir (Snorra Edda). sörvar blikseima: gnótt fjár, mikill auður.

## T.

tröllmar (hestur trölls), úlfur, vargur.
túrinskur, frá Thúríi (bæ í Ítalíu).

## U.

undasylgur. sylgur: það, sem solgið er; teygur. undasylgur: blóð.

## Ú.

úror igne graví, heitur eldur brennir mig.

## V.

vað (á 164. bls.): hvað; (á 163. bls.): það sem.
valborg, hönd. valborgar veggir: fíngur.
valete, verið þjer sælir, verið þið sæl; guðsfriði.
valjörð, hönd.
Vandalhús, Andalúsía (hjerað á Spáni).
vekat ek, eg vek eigi.
velsigne (á 163. bls.), blessi.
ven, vin, vinur.
Vendilbúðir. Vendill hjet hjeraðið frá Limafirði til Vendilskaga á norðurhluta Jótlands í Danmörku. undir Vendilbúðum (á 19. bls.): í Danmörku.
Venus, ástargyðja (Rómverja).
verfákur (sjáar fákur), skip.
vje (eða ve), heilagur staður, helgistaður.
ví, við.
vílmögur, þræll.

## Ý.

ýr, bogi (ý: boga).

# LEIÐRJETTÍNGAR.

2. bls. 13. l. fegursta, les: fríðasta. 10. bls. 5. l. yfir, les: yfir blómguð. 11. bls. 10. l. burtu, les: brautu. 29. bls. 3. l. raddafari, les: radda fari. 32. bls. 19. l. meiðslum, les: og meiðslum. 35. bls. 10. l. ráðvendni, les: og ráðvendni. 37. bls. 12. l. látin geymið, les: geymið látin. 45. bls. 7. l. undan færi, les: undanfæri. 58. bls. 4. l. bið, les: hið. 59. bls. 21. l. sem, les: sem að. 71. bls. 17. l. þó, á, ef til vill, heldur að vera: þá. 123. bls. 14. l. láttu, les: láttu því. 127. bls. 15. l. af, les: á. 162. bls. 22. l. kaupmenn, á líklega heldur að vera kaupmann. 180. bls. 8. l. er, les: var. 184. bls. 1. l. og, les: eg. 185. bls. 5. l. ljerptið, les: ljereptið.